# HUGVEKJUSÁLMAR

TIL

KVÖLDSÖNGVA

FRÁ

VETURNÓTTUM TIL LANGAFÖSTU,

EPTIR

**GUÐMUND EINARSSON,**

PREST AÐ KVENNABREKKU.

---

ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON Í REYKJAVÍK.

1860.



# FORMÁLI.

Sálmar þeir, sem eru í bæklíngi þessum, eru svo til orðnir, að þá er eg las „Nýjar hugvekjur" eptir sèra Sveinbjörn Hallgrímsson, vaknaði hjá mèr eins konar löngun til að reyna að snúa efni nokkurra þeirra í ljóð; hafði eg ekki, það er heita mætti, fengizt við ljóðmælasmíði fyrr. Af því eg fann hjá mèr löngun til og ánægju af að grípa í þetta á næðis- og kyrðarstundum mínum, þá fjölguðu sálmarnir smámsaman, og að lyktum unnust upp allar hugvekjurnar nema þær, sem ætlaðar eru sèrstökum tækifærum.

þegar svo langt var komið, og eg hafði sýnt sálmasafn þetta ýmsum málsmetandi kunníngjum mínum, er bent höfðu

mèr á eitt eg annað í þeim, er betur mátti fara, og fremur hvatt mig en latt að láta prenta sálmana, og eg var í þeim umsvifum að koma því til vegar, þá barst mèr fregn sú, að hugvekjur eptir dr. P. Pètursson væri í smíðum og frestaði eg þá fyrirætlun minni.

Síðan hugvekjur þessar komu á gang hefi eg yfir farið sálmana að nýju, lagað þá og aukið hèr og þar og bætt við 20 nýjum, sem eg hefi skotið inn, þar sem mèr þókti þeir helzt eiga við, samkvæmt niðurskipun hinna fyrri. Nú er því ætlan mín sú, verði sálmar þessir gefnir út, og þyki þeir hæfir til kvöldsöngva, þá megi finna í þeim sálma, er samsvari, að áþekkri eða skyldri hugsunarstefnu, hverri hugvekju, sem lesin er, hvort heldur hún stendur í hugvekjum sèra Sveinbjarnar eða dr. Pèturs. Sè nú lesnar Hugvekjur sèra Sveinbjarnar, má sýngja sálmana eptir röð, en hleypa þeim að eins úr, er talan stendur við í svigum (t. a. m. (15). (16). sálmur o. s. frv.); en yfir Hugvekjur

dr. Péturs hefi eg samið sálmaval, sem stendur hèr fyrir aptan formálann, þeim til nota er vilja.

Um skáldskapinn á sálmum þessum skal eg ekki vera fjölorður. Eg veit, að á honum eru langtum fleiri mis- og vansmíði en eg vildi, og enda fleiri en eg veit af, en sem eg þykist ekki geta bætt úr fremur en eg hefi reynt til. Sálmarnir kunna að þykja heldur langir, og veldur því meðfram það, að eg lèt því nær hvern sálm lykta með bænarvessi, því mèr þykir þau prýða, einkum hugvekjusálma. Þótt eg voni, að þeir sè svo liðugir, að lög megi vel við þá hafa, þá veit eg samt af mýmörgum bragargöllum á þeim, bæði sakir rangrar áherzlu og hljóðgapa („hiatus"); en þar er annars hvors varð án að vera, þá vildi eg heldur láta kveðandi víkja en efnið. Lakast þykir mèr hversu sálmarnir eru snauðir af hinni sönnu skáldskapar snild.

Án frekari formála fel eg þá sálma þessa umburðarlyndi og velvild landa

minna, komi þeir þeim fyrir sjónir, og fari svo, el eg þá von með sjálfum mèr, að heyrn þeirra, lestur eða söngur veki áþekkar hugarhræríngar hjá öðrum sem umhugsanin um þá hefir vakið hjá sjálfum mèr, og til þess bið eg drottinn leggja blessan sína í Jesú nafni.

Ritað í febrúarmán. 1859.

*Höfundurinn.*

---

# SÁLMAVAL
## samkvæmt hugvekjum
eptir dr. Pètur Pètursson.

| Hugvekju-tal | Sálma-tal | Hugvekju-tal | Sálma-tal |
|---|---|---|---|
| 1 | 107 | 25 | 8 |
| 2 | 108 | 26 | 43 |
| 3 | 1 | 27 | 63 |
| 4 | 38 | 28 | 95 |
| 5 | 81 | 29 | 76 |
| 6 | 10 | 30 | 78 |
| 7 | 19 | 31 | 97 |
| 8 | 7 | 32 | 16 |
| 9 | 84 | 33 | 58 |
| 10 | 35 | 34 | 79 |
| 11 | 18 | 35 | 99 |
| 12 | 17 | 36 | 62 |
| 13 | 98 | 37 | 13 |
| 14 | 33 | 38 | 69 |
| 15 | 15 | 39 | 92 |
| 16 | 20 | 40 | 22 |
| 17 | 26 | 41 | 64 |
| 18 | 60 | 42 | 24 |
| 19 | 96 | 43 | 21 |
| 20 | 94 | 44 | 52 |
| 21 | 93 | 45 | 71 |
| 22 | 70 | 46 | 65 |
| 23 | 36 | 47 | 51 |
| 24 | 5 | 48 | 23 |

| Hugvekju-tal | Sálma-tal | Hugvekju-tal | Sálma-tal |
|---|---|---|---|
| 49 | 73 | 71 | 47 |
| 50 | 72 | 72 | 28 |
| 51 | 82 | 73 | 90 |
| 52 | 14 | 74 | 29 |
| 53 | 11 | 75 | 41 |
| 54 | 59 | 76 | 89 |
| 55 | 55 | 77 | 74 |
| 56 | 25 | 78 | 83 |
| 57 | 87 | 79 | 57 |
| 58 | 31 | 80 | 75 |
| 59 | 61 | 81 | 80 |
| 60 | 37 | 82 | 77 |
| 61 | 66 | 83 | 53 |
| 62 | 85 | 84 | 9 |
| 63 | 54 | 85 | 56 |
| 64 | 40 | 86 | 39 |
| 65 | 27 | 87 | 32 |
| 66 | 49 | 88 | 86 |
| 67 | 67 | 89 | 88 |
| 68 | 68 | 90 | 106 |
| 69 | 30 | 91 | 109 |
| 70 | 91 | 92 | 110 |

# 1. sálmur.

Lag: Kom skapari, heilagi andi.

Til þín eilífa ástarlind
Minn andinn fúsi lyptir sèr,
Og þó hann beygi sekt og synd,
Samt vill hann lofgjörð flytja þèr.
2. Þèr, sem eg lífið þakka á,
Þèr, sem að annast hefir mig,
Þèr, sem að öllu fári frá
Frelsaðir mig um lífsins stig.
3. Þèr, sem að lífsins gæði góð
Gafst mèr í helgri skírnarlind,
Fyrir þitt helgast hjarta blóð
Hreinsaðir mig af allri synd.
4. Þèr, sem um eilífð ætlar mèr
Í þínu ríki dýrðarvist,
Þèr lofgjörð, dýrð og þökkin ber,
Þig að vegsama sè mín lyst.
5. Minni'em eg, drottinn, miskun þín,
Minni trúfesti þinni' og náð,
Ávallt sè föst í minni mín
Miskunsemd þín og hjálparráð.

6. Meðan því líf í æðum er,
Og túngan kann að flytja mál,
Lifandi drottinn lofgjörð þèr
Ljúft skal eg inna' af hug og sál.
7. Um eilífð frjálsi andinn minn,
Ánauðarlaus við fjötra senn,
Vegsemdar ljóði lofsöng þinn,
Lifandi guðdóms eining þrenn.

## 2. sálmur.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

Drottinn, þína dýrð framræðir
Dásamlegast himinhvel,
Allt það oss með undrun fræðir,
Að þú gjörðir furðu vel
Andrúmsloptið, eldingar,
Öflin vinda, skýja far,
Himinljós og hnetti fríða,
Himinbrautir um sem líða.
2. Jörðin gjörvöll þrátt fram þylur
Þína lofgjörð, drottinn minn,
Fjöllin, dalir, fossinn, hylur,
Fjölbreytt grös og skógurinn,
Skepna, orma, fugla fjöld,
Framreidd gæðin þúsundföld;

Á því náðar nægta borði
Nægur veitist öllu forði.
3. Háar öldur hafsins víða
Hátt vegsama, drottinn, þig;
Öll sædýr, er um það skríða,
Allt, sem þar í bærir sig;
Allt, allt skapað innir bert,
Eilíf speki' og gæzka sèrt,
Almáttugur allt þú seður,
Annast, fjörgar, leiðir, gleður.
4. Alheims faðir, æðsti drottinn,
Alls hins skapta líf og sól,
Allt ber þinnar ástar vottinn,
Í þèr hlýtur vörn og skjól,
Æðst þó vitnið erum vèr
Aumstaddir, sem dveljum hèr,
Ást þín við oss yfir tekur,
Í oss sanna lofgjörð vekur.
5. Líf vort gjörvallt lof þèr færi,
Lífs á meðan varir stund;
Ástin þín það efli, næri,
Annist, gleði' í vöku' og blund,
Ó guð, meðtak ástar þökk,
Er þèr hjörtun flytja klökk
Fyrir auðlegð ástar þinnar,
Æðstu gleði sálarinnar.

---

# 3. sálmur.

Lag: Óvinnanleg borg er vor guð.

Guð almáttugur, eg þinn mátt
Í öllu líta gjöri,
Hvort það er mikið, margt eða smátt,
Máttku það gæðir fjöri;
Konúngar hafa hèr,
Herra, sitt vald frá þèr;
Þèr hlýða hlýtur allt,
Á himni' og jörð gjörvallt,
Þótt ei þann kostinn kjöri.

2. Þá bikar gleði bergi' eg á,
Böl eða hjartað særir,
Almættis þinu orði frá
Allt er það, faðir kæri;
Þú skamtar lán og líf
Líkn veitir styrk og hlíf;
Meðvitund eins þess er
Innrætt af sjálfum þèr,
Að hún mèr fögnuð færi.

3. Ef eg í hjarta hroka mèr
Með hamslaust girnda æði,
Kúga þann minni máttar er,
Meina' honum lífsins gæði;
Minntu mig þá á það,
Þitt orð er forðum kvað:

„Háalda hræðilig
Hèr skalt þú brjóta þig",
Dramb mitt svo deyfast næði.
4. Ó drottinn, þegar aumum mèr
Ætlar að fallast hugur,
Örvínglan eður angist sker
Allur svo hverfur dugur,
Allt sýnist einber neyð,
Allt bendir mèr að deyð;
Almættisorðin þín
Upplífgi sálu mín,
Eg svo gjörist öflugur.

---

## 4. sálmur.

Lag: Rís upp, mín sál, og bregð nú blundi.

Almáttki guð, þitt orðið skapti
Alheimsins mikla hnatta fjöld
Meður almættis æðstum krapti
Allt það, sem stjörnu bjartast kvöld
Sýnir um himinháan geim;
Hjartað gagntekst af undrum þeim.
2. Hvað er það þó sem augun eygja,
Og með sjónpípum skoðað fá,
Það hefir ekki hót að segja
Hjá öllu því, sem vizkan há

Framleitt hefir, þar eilífð ein
Um það kann nokkra veita grein.
3. Þú bauðst, og allt þar stóð og stendur
Stutt viður guðdómskraptinn þinn,
Þú talar og það tekur endur
Takmarkalausi geimurinn.
Hugurinn verður magnlaus minn,
Minn guð, þá skoða' eg kraptinn þinn.
4. Allt ert þú drottinn upphæðanna,
En ekkert mig eg reikna kann;
Jörðin er duptkorn drottins ranna,
Duptkorn má telja sèrhvern mann
Hjá henni; svo eg aumur er,
Að ei get bjargað sjálfum mèr.
5. Ó þá ofdirfð að þora' að vekja
Þráttanir gegn þèr, drottinn minn,
Eða með vafa vilja hrekja
Þitt vísdómsorð og boðorðin;
Dramblætis manns og heimsku hèr
Hróplegasta það vottinn ber.
6. Eg beygi mig í auðmýkt niður,
Í duptið fyrir drottins tign,
Önd mín gagntekst þau undur viður,
Sem eygir hún þó mjög sljóskygn.
Ó drottinn, dýrð ber einum þèr,
Einber blygðanin sjálfum mèr.

# 5. sálmur.

Lag: Guðs gæzku prísa.

Röðull rósfagur
Rennur morgunstund,
Allt unaðsdagur
Upp vekur af blund;
Blómskreytt brosir jörðin,
Bergmáls lyptir óm,
Hennar kát því hjörðin
Hvellum sýngur róm:
Ó, þú maður, andi þinn
Upp sèr braði' í himininn,
Og þar glaður guð drottin
Göfgi þakkar hljóm.

2. Þá þögul njóla
Þenur skuggatjald,
Hver skepnan rólar
Hennar undir fald;
Himin heiður kallar
Hárri raust á þig:
Láttu' ei lofgjörð falla,
Líttu' á stirndan mig,
Himin- ljóma -ljósin hèr
Lífsins róma dásemder,
Og þann blóma', er ætlar þèr
Ást guðs föðurlig.

3. Ó unaðs sælu,
Ó þá miklu tign,
Ó von indælu,
Er eg hef sljóskygn;
Ó þann unað skæra,
Er guðs veitir náð,
Hvað mun hjartað hræra,
Hans ef ei fæ gáð.
Hver ein stjarna' af himnaher
Hýrast þarna bendir mèr,
Hvar guðsbarna óðal er,
Eilíft sæluláð.
4. Þá fjölskrýdd foldin
Faðm útbreiðir sinn,
Myrk svarðar moldin
Magnar blómsturin,
Allt er líf og auður,
Öll er skepnan kát,
Á eg einn, sem snauður,
Angurs hefja grát?
Ó nei, rís þú, andi minn,
Upp að prísa drottin þinn,
Er auglýsir almátt sinn,
Á þèr hefir gát.
5. Þá jurta móðir
Þyggur værð og hvíld,
Um allar slóðir

Er, sem hjúpi skýld,
Hæglát hún mèr bendir,
Að hvíli' eg og svo mig,
Feli föðurhendi
Fram minn greiða stig;
Þó náttúran detti' í dá,
Dimman skúra hrelli brá,
Verndarmúr, sem æ eg á,
Ó guð, lofa' eg þig.
6. Þá hjartað hrelda
Huggun enga fær,
Og syndum selda
Samvizkan mig slær,
Eg lít ástar vottinn
Æðri' en skynjast kann,
Þegar dýrstur drottinn
Dauðann þola vann;
Hans því fagni frelsta hjörð,
Fagra magni þakkargjörð
Þeim, sem gagnið gjörði jörð,
Göfgi lausnarann.
7. Ó Guð minn góði,
Göfga vil eg þig
Hátt og í hljóði,
Hátign föðurlig,
Þig, sem gott allt gjörðir,
Gjörir jafnan enn,

Kærleikans til kjörðir
Krans á alla menn.
Hjartað dansi og hugurinn,
Hvarma glansi skuggsjáin,
Minn til ansi munnurinn,
Magni lofsönginn.

---

## 6. sálmur.

Lag: Kom, skapari, heilagi andi.

Þú byggir hæstan himnarann,
Heilögust vera sílofuð,
Enginn þig rètt útgrunda kann,
Allsherjar drottinn vor og guð.
2. Þú, ljóssins faðir, lifir í
Ljósi alskæru himnaranns,
Að lýsa veru ljóssins því
Langt yfirgengur skynbragð manns.
3. Þó að mannvizkan hyggi hèr
Hugleiða þinnar veru djúp,
Allt í veikleika víst það er,
Vafið skammsýnis döprum hjúp.
4. Þinn almátt, speki, elsku, náð,
Alsæld, rèttlæti, heilagleik,
Syndug skepna ei skilur, háð
Skaplasta' og girnda illum leik.

5. Þú skópst oss víst í þinni mynd,
Þeirrar einkunnir höfum vèr,
En af því að oss saurgar synd,
Sèrlega lítið á þeim ber.
6. Ofvaxið er því anda manns
Útgrundað geta, drottinn, þig,
En þín ígrundan æ sè hans
Æðsta hugsan um lífsins stig.
7. En þar eg skilja ekki má
Hinn órannsakanlega hèr,
Hvað skal eg gjöra, guð minn, þá,
Svo gjörvallt líf mitt helgist þèr?
8. Eg skal þig, góði guð drottinn,
Göfga, tilbiðja, lofa hátt.
Líf, andi, kraptur allur minn
Æ skal þèr þjóna dag sem nátt.

---

## 7. sálmur.

Lag: Guðsson kallar: komið til mín.

Einskærust gæzka guð vor er,
Gjörvöll náttúran vitni ber
Um það í einu hljóði,
Andar og líkams aðalstörf
Öll blessar hann, og lífsins þörf
Gefur af gnægta sjóði.

2. En hann rèttlátur er jafnframt,
Ó að oss væri jafnan tamt,
Því fullan gaum að gefa,
Bæði hið innra og ytra hèr
Um það ljósasta vottinn ber,
Slíkt þarf enginn að efa.
3. Vors guðs rèttlæti fólgið finnst
Í fylgsnum vorrar sálar innst,
Samvizkan bezt það sannar;
Úthelltur tára og unda foss
Yfir jörðina sýnir oss:
Dómari' er drottinn manna.
4. Refsidómarnir hrópa hátt
Um hins rèttláta guðdóms mátt,
Sem allt er undir gefið;
Þrælum girndanna hegnir hann,
Hve opt beygði hann syndarann
Sem vindur visið sefið.
5. Alvizkan, sem að allt það sèr,
Er menn í leyndum fremja hèr,
Augljóst það endurgeldur.
Opt þessa sjáum sönnust rök,
Samt er oss tíðum hulin sök,
Er hegníng harðri veldur.
6. Þú maður, gæt þú glöggt að því,
Guð talar sínum orðum í:
„Eg læt ei að mèr hæða,

„Eptir því, sem hver sáir hèr,
„Í sama máta hann upp sker,"
Þá hótun lát þig hræða.
7. Heims sagan kveður heims upp dóm,
Henni skapaðir slíkan róm,
Rèttláti heimsins herra;
Vandlæting þína valda lát,
Vèr á oss höfum betur gát,
Og látum lesti þverra.

---

## 8. sálmur.

Lag: Jesú Kristi, þig kalla eg á.

Guð drottinn, þú sem geldur rètt
Gjörðunum eptir manna,
Og hegníng vissa hefir sett
Harðýðgi syndaranna;
Enginn kann flýja fyrir þèr
Nè fylgsn' sèr í að skjóta,
Er framdi ljóta
Glæpi og illar gjörðir hèr,
Gjöld mun hann rèttvís hljóta.
2. Sjá, maður, hótun hegnarans,
Hann á vald lífs og dauða,
Drottins, allsherjar dómarans,

Dæmandi' eins ríka' og snauða,
Lasta því varast ljótan sæg,
Lát þá þig ekki villa,
Nè girndir gylla,
Af fremsta megni burt þeim bæg,
Betrun þinni þeir spilla.
3. En ef að þú af alhug vilt
Orði þíns drottins hlýða,
Öll fær það meinin andar stillt,
Svo engu þarft að kvíða;
Vegna Jesú þèr vægir hann,
Ef viljann frammi lætur,
Þess gefur gætur,
Á hans boðum í hjartans rann'
Að hafa jafnan mætur.
4. Rèttláti guð, eg boð þín brýt,
Böl því mitt hjarta særir,
Af orði þínu huggun hlýt,
Það hrellda sálu nærir.
Iðrandi flöt hún fleygir sèr
Á fótskör þína niður,
Og bljúgast biður:
Ó drottinn, væg þú aumri mèr,
Þú einn mig veika styður.

---

# 9. sálmur.

Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Einskærust ert þú ást og náð,
Algóði faðir kær,
Um himin víðan haf og láð
Sú hljómar röddin skær,
Einn dagur fær það öðrum tjáð
Og næturhvíldin vær,
Og þitt eilífa ástarráð,
Oss boðað fjær og nær.

2. Þú ert hið sanna lífsins ljós
Lýsandi um vora braut,
Unun, hlíf, styrkur æðsta hrós
Í hverri lífsins þraut.
Eins þótt farsældar fögur rós
Fjölblómgvi lífsins skraut,
Föður kærleiks til fylgis kjós,
Farsæll er sá þess naut.

3. Hvert sem þú kýs að kalla mig,
Kærleikans drottinn minn,
Eg feginn vil þann feta stig,
Fús stunda viljann þinn,
Þín föður elskan ástúðlig
Minn eflir vanmáttinn,
Í lífi' og deyð að lofa þig
Lífs það eg unun finn.

4. Þú ert kærleikur, drottinn dýr,
Þó dapra sendir neyð,
Þú ert kærleikans herra hýr,
Þó harma fetum skeið,
Þíns kærleiks ást er alteins skír,
Þó að sè komið deyð,
Kærleikur þinn í bana' oss býr
Blessun og dýrðar leið.

5. Þar um fullvissar alla oss
Þitt æðsta hjálpar ráð,
Hann, sem að lífið lèt á kross,
Og leysti mannkyn þjáð,
Ó, það himneska ástarhnoss,
Öllum heiminum tjáð;
Meðtak þú andans ástarkoss,
Einskæra guðdóms náð.

6. Ó þú uppsprettan ástar tær,
Allt gott sem streymir frá,
Þèr vil eg færast nær og nær,
Svo nái að bergja' á
Elsku þinni, sem er frábær,
Og æ þèr vera hjá,
Hvar ástarblómin unaðs-skær
Alþroska dýrstum ná.

---

## 10. sálmur.

Lag: Herra guð í himnaríki.

Kom þú, maður, og kynn þú þèr
Með kristilegu næmi,
Hversu að dýrt og háleitt er
Þíns herra Jesú dæmi.
2. Eins og hann vinn þú ár og síð
Að drottins rèttum vilja,
Og ekkert lát um æfitíð
Í frá honum þig skilja.
3. Eins og hann ver þú æfistund
Til æðstu lífsins þarfa,
Minnst þess, þá dauðans ber að blund,
Er búið hèr að starfa'.
4. Þú skalt því iðka' á alla lund,
Það átt þú hèr að vinna,
Ávaxta gefið gróða pund
Góðverka jafnan þinna.
5. Íhuga þú það einkaráð,
Ef þú vilt sælu njóta,
Að mildi guðs og miklu náð
Mátt þú ei af þèr brjóta.
6. Í von og trú þèr við Guð halt
Á vilja hans haf þú gætur,
Þá í fagnaðar fylling skalt
Finna, hve hann er sætur.

7. Hans blessan mild því býtist þèr,
Hans blessan þig þá gleður
Og í upphæð með englaher
Eilífri blessan seður.
8. Minn drottinn, lát mig þjóna þèr,
Þinn viljann gef eg stundi,
Væg þú í náð og miskun mèr
Þá mínu skila' eg pundi.

---

## 11. sálmur.

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

Ó, hversu öll vèr Adams börn
Erum á syndalysting gjörn,
Hún vill svo við oss ráða;
Frá því mannskepnan fæðist hèr,
Fjötrum syndanna læst hún er,
Í hættu hrapar bráða.
Ó synd, þú ert oss ofur kær,
Þín ólyfjan það verkuð fær,
Að elskum ei hið góða;
Enginn sönn höfum af þèr not,
En yndið þitt er rètt dæmt brot
Gegn því, sem boð Guðs bjóða.
2. O jeg vil ekki vægja mèr,
Vægara nafn að gefa þèr,

En þú átt af mèr skilið.
Undirrót hvers kyns lastalags,
Líkams eyðíng og sálarhags,
Er magnar milli bilið
Á milli Guðs og manna hèr,
Með þèr dauðinn í fylgi er,
Og eilíf andar pína;
Í hverri sem að ert þú mynd,
Og af þèr lokkast sál mín blind,
Eins sè eg illsku þína.
3. Hversu mikið sem afl þitt er,
Afbötun sízt er nokkur mèr,
En eg skal af því læra,
Að ofurveikt sè eðlið mitt,
Af sèr að standast megnið þitt,
Og andans ávöxt færa.
Hins góða, sem eg gjöra vil,
Eg gjöri valla nokkur skil,
En einatt illu sinni;
Æ, hversu mitt er eðlið spillt,
Æ, hversu geng eg tiðum villt
Frá sönnu sælu' heimkynni.
4. Ó Jesú veit að andinn þinn,
Andan breysklynda styrki minn,
Í hættu heimsins stríði;
Gef mèr að iðrast glæpa mín;
Gef mèr í trú að leita þín;

Unn þèr í auðmýkt hlýði.
Drottinn minn, hjartans hrellíng stytt,
Og hugarangrið sefa mitt,
Veit mèr þinn frið að finna,
Og við hið hinnsta æfi kvöld,
Að mín burtflytjist sál útvöld
Í flokk útvaldra þinna.

---

## 12. sálmur.

Lag: Heiðrum vèr Guð af hug og sál.

Eg má það játa, ó drottinn,
Eg em þinn týndi sonurinn,
Af þinni líkn þú lèntir mèr
Líkams og sálar velgjörðer;
En eg hagnýtti ekki þær
Eins og eg skyldi, faðir kær,
Angrið því hjartað ákaft slær.
2. Hefur þú sífelt, sála mín,
Sonar Guðs hugleitt deyð og pín?
Hefirðu þjónað honum vel,
Hvers eilíft reyndir gæzku þel?
Hefirðu aldrei Andann hryggt,
En honum gjörvallt hjartað byggt,
Og illar girndir á burt styggt?
3. Hefur refsíngar-hræðslan stríð,

Nei, hefir kærleiks röddin blíð,
Þig heimi kallað hættum frá,
Svo himnasælu girntist ná?
Hafa limirnir líkamans
Lèðst í þjónustu skaparans,
Og eflst af íbúð anda hans?
4. Hafa sjón, heyrnin, hendur, mál,
Heims þessa forðast lyst og prjál?
Hafa þau iðkað ávallt það,
Er drottins þjónkan studdi að?
Forðast veraldar vèla snið
En veitt með bræðrum öruggt lið,
Þess er þeir einkum þurftu við?
5. Ó nei, það ríkir í mèr synd,
Er mín náttúran þjónar blind,
Af eigin kröptum ekki kann
Óvininn burt að reka þann.
Æ, góði faðir, legg mèr líð,
Í lausnarans nafni eg þess bið,
Að synd eg skilið segi við.

---

## 13. sálmur.

Lag: Dauðans þúngu kraminn kvöl.

Faðir hæða, fyrir þèr
Fallið mannkyn allt er sekað,

Synda þúngans byrði ber,
Burt af vegi sannleiks flekað.
Enginn er í augum þínum
Ó Guð, hreinn, að ramleik sínum.
2. Upphaf vizku, óttann þinn,
Ei sem skyldi, stunda náðum,
Hvikul úngdóms hugsunin
Hamla vann, svo þess ei gáðum,
Sem að eilíft orð þitt blíða,
Öllum bauð að geyma' og hlýða;
3. Oss var þá svo ofurtamt,
Ei að nota svo sem skyldi,
Tímans einatt tæpa skamt,
Táldrægt holdið því að vildi
Gegna því, sem girndin krafði.
Glys sem heimsins fágað hafði.
4. Þóað aldur ykist oss,
Ástand vort ei batnað hefur,
Skýn í augum heimsins hnoss,
Hjartað við það löngum tefur;
Illra girnda efldur sægur
Er í voru hjarta nægur.
5. Æ, vèr höfum of vanrækt
Allar skyldur, faðir góði,
Holds girnd vor því hefir bægt
Hjartans lyst frá dygða sjóði.
Allir eldri' og ýngri játa,

Að þig hafi styggt úr máta.
6. Guð minn góður, gæzkulind,
Grátinn hugur það meðkennir:
Í mèr ríkir sífelt synd,
Synd, er hjartað sker og brennir,
Engan frið mín öndin hefur,
Ef mèr líkna við þú tefur.
7. Augum mæni' eg upp til þín
Angri þrúngnum, faðir góði,
Æ þú heyrir andvörp mín
Upp sem styn af hjartans móði;
Mjög mig særir synd og mæða,
Sár mín græð þú, faðir hæða.

---

## 14. sálmur.

Lag: Til þín heilagi herra Guð.

Ó drottinn, fyrir einum þèr
Ekki' er hreinn nokkur manna,
Allir saurugir erum vèr,
Afli háðir syndanna;
Óteljanlig vor illsku hót,
Afbrotin gegn þèr mörg og ljót
Leið saurga lífdaganna.
2. Syndirnar mínar hrópa hátt,
Og hegning sálin kvíðir,

Eg reitti þig til reiði þrátt,
Refsíng því vel til hlýðir;
Ógnan og hræðsla hugann sker,
Hvíla því jafnan yfir mèr
Dómarnir drottins stríðir.
3. Ó herra Guð, af hjarta' eg bið,
Hirt þú mig vægilega;
Þín miskun æ mèr leggi lið
Og líkni alla vega.
Auglit þitt hyl þú ei fyrir mèr
Eg þó að brjóti móti þèr;
Sakleysið sárt eg trega.
4. Eg fleygi mèr á fótskör þín,
Minn faðir hjartagóði
Æ, hyl þú brotin margföld mín
Með Jesú dýra blóði,
Og látt þú blíðan anda þinn
Andann sorgmædda gleðja minn,
Svo hjartans hrindi móði.
5. Veizt þú bezt, drottinn, vanmátt minn,
Og við hvað hefi að stríða;
Lát þú því andann ávallt þinn
Aðstoð mèr veita blíða,
Að elska' af hjarta heitast þig,
Og halda dyggða beinan stig;
Þèr einum þjóna' og hlýða.

6. Á þèr, drottinn, er öll mín von,
Eg vil ei dómi kvíða;
Eg treysti á þinn sanna son,
Sáluhjálparann lýða;
Þó ótal sèu afbrot mín
Enn þá meiri er náðin þín,
Blóð fyrir lambsins blíða.

---

## 15. sálmur.

Lag: Dauðans þúngu kraminn kvöl.

Ó, minn faðir, eg til þín
Angri þrúngnum huga renni,
Synda ákaft sárin mín
Svíða, mjög eg til þess kenni;
Hjartað sært er sundurkramið,
Sjá, hvað illt eg hefi framið.
2. Þín alvizkan ávallt veit
Allar mínar drýgðu syndir,
Hún sèr glöggt í hjartans reit
Hugrenninga ótal myndir;
Hún minn þekkir þróttinn veika,
Þegar eg vil ekki skeika.
3. Eg afsökun enga hef,
Eg lögmáli hlaut að gegna,
Ó, minn faðir, fyrirgef

Framin afbrot Jesú vegna;
Æ, eg bið af angurs móði,
Áheyrn veit mèr, Jesús góði.
4. Brota minna sviða sár
Sökum þinna unda græddu,
Yfir bótar tæru tár
Teld', og svala brjósti mæddu;
Friðþægíngu fyrir þína
Frelsa þú nú sálu mína.
5. Endurskapa anda minn,
Anda þíns svo líkíng beri;
Kærleiks æðsti kraptur þinn
Kraptur minnar sálar veri;
Heims úr greipum hana þrífi
Himinsælu gæði lífi.

---

## 16. sálmur.

Lag: Til þín heilagi herra Guð.

Ó, herra Guð, eg hrópa' á þig
Af hjartans innsta grunni,
Hjálpræðið sanna heyr þú mig,
Hugsvalast að eg kunni;
Önd mína þyrstir eptir þèr,
Ormæddum virzt að svala mèr
Af náðar nægta brunni.

2. Eg mæddur játa mína synd,
Og misgjörð þúsundfalda,
Mig ginnti' og æsti girndin blind,
Og glæpum rèð að valda;
Æ, hver fær staðist fyrir þèr,
Ef fer þú, eins og vera ber,
Reikníng rèttan að halda?

3. Á fótskör náðar fram því krýp,
Og forláts, minn Guð, beiði,
Sem náðar þurfi niður drýp,
Á náð þá fús mig reiði,
Sem náðarorð þitt boðar bezt,
Þó brotið hafi' eg allra mest,
Þín náð til lífs mig leíði.

4. Þín miskun því að meiri er,
En málið kann að lýsa,
Þinn sonur vottinn sjálfur ber,
Sál mín skal nafn hans prísa,
Mín fyrir afbrot mæddist, dó,
Með sínum dauða lausn mèr bjó
Og vegsemd, hjá þèr vísa.

5. Eg örmum trúar um vef þig,
Af öllum sálar mætti,
Og bið þess að, að þú blessir mig,
Burtnemir það, sem grætti;
Eg held mèr föstum við þá von,

Sem veitti mèr þinn einkason,
Þá er hann brot mín bætti.

---

# 17. sálmur.

Lag: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Ó maður, þú sem ætlar þèr
Ást og náð drottins hljóta,
Hvað lengi vittu, herm þú mèr,
Honum á móti brjóta?
2. Á drottni' að þjóna ellin snauð,
Þá allt er rètt á förum,
En helga veröld heilsu' og auð
Í helztu lífsins kjörum?
3. Þjónir þú dögum æsku á
Aldreigi drottni hreinum,
Verðugt er hann þèr vísi frá,
Vöfðum ellinnar meinum.
4. Auk þessa tæpast átt þú víst,
Ellinnar fá að bíða,
Vitjar dauðinn, nær varir sízt,
Verður þú þá að hlýða.
5. Úngan og hraustan einatt hann
Afli og lífi sneiðir,
Engu síður en aldraðan,
Í gröf þá báða leiðir.

6. Horf þú á tímans hraða straum,
Haf þú á lífi gætur,
Girndum illum ei gef þú taum,
Gjör þú á syndum bætur.
7. Áhrifum helga andans þú
Með ást skalt móti taka,
Hugarfar þitt sem bezt tilbú,
Í bæn trúlyndur vaka.
8. Hvenær, sem býðst þèr hentug tíð,
Hennar skalt ávallt neyta;
Guðs meðan náðin gefst þèr blíð
Gjörla skalt hennar leita.
9. Faðir þinn blíðar býður þèr
Að burt frá syndum snúir,
Tak það ráð meðan tíminn er,
Svo tjón ei sálu búir.
10. Faðir, þinn kraptur frelsi oss,
Frá synd og illum heimi,
Og fyrir Jesú unda foss
Óstraffanlega geymi.

---

# 18. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem í himnum ert.

Sál mín, prófa þú sjálfa þig,
Sú er rannsóknin nauðsynlig,

Lát þú samvizku sanna rödd
Segja þèr, hvernig ert þú stödd;
Daglega þessu gef þú gát,
Glepja þig ekkert frá því lát.
2. Slíkt býður Jesús blíður þèr,
Betrun þín í því fólgin er;
Gef þú í rannsókn gætur að,
Sem guðs þíns lögmál fast ákvað;
Sjálfselsku, þótta' og hræðslu hrind;
Hætt er annars þú verðir blind.
3. Hver sem að elskar sálu sín,
Og sæld vill fá, er aldrei dvín,
Sá, sem vill forðast dauða dóm,
Deyjandi heyra lífsins hljóm,
Um daga lífs sig dæmi hèr
Daglega, svo sem vera ber.
5. Einkum og helzt þú átt, mín sál,
Athuga lífs þíns vandamál,
Þegar að drottins blessan blíð,
Býðst þèr í helgri kvöldmáltíð;
Guðs fyrir sakir gæt að þèr,
Glötunin annars búin er.
5. Æ, það stoðaði ekki þar,
Öll þó að ríki veraldar
Ættir, ef himna- ekki -vist
Öðlaðist fyrir Jesúm Krist;
Lát þú því hvorki hold nè heim

Hrekja þig burt frá drottni þeim.
6. Iðranin sönn og apturhvarf
Ávallt sè lífs þíns meginstarf;
Vak þú, bið þú, og berstu því,
Braut dygða halt, en lesti flý;
Vottaðu þau á verkum skil,
Velferð þín ei sè gamanspil.
7. Æ, þó eg vilji gjöra gott,
Góðverka nokkurn sýna vott,
Ófullkomið er allt mitt ráð,
Allt hlýt eg þiggja af drottins náð,
Jesús minn, lausnar greið þú gjald,
Gef eg mig á þitt náðar vald.

---

## 19. sálmur.

Lag: Hæsti guð, herra mildi.

Þú maður, syndum seldur,
Seg mèr: hvað dvelur þig,
Að þú ei hiklaust heldur
Helgunar fram á stig,
Þar sem ljós lífsins skæra
Lýsir upp þína braut,
Þig gjörir hressa' og hræra,
Himneskum lífsyl næra,
Sem mýkir mein og þraut.

2. Þú fangi, fjötur synda
Frálega sundur slít,
Bug að því brátt skalt vinda,
Og betrun þinni flýt.
Helkuldi hèr þig þjáir,
Hrellíng og myrkurin,
Eilífri eymd þèr spáir,
Örvínglast svo þú náir,
Og flýi farsældin.
3. Vara þig, vèl er búin
Vonzkuleg sálu þín,
Og tíðum snara snúin,
Snöggleg, er veldur pín,
Óvinur sálna æðir,
Ef hann fær grandað þèr,
Hrellíngu þína hæðir,
Hörmúngin sálu mæðir;
Þetta ills umbun er.
4. Hugsar þú herrann bíði,
Unz hyggst' að betra þig,
Eða þèr lengi líði,
Að lasta' og mana sig?
Nei, þú munt glæpa gjalda,
Gæt þess, og bæt bitt ráð;
Á náðir hins alvalda
Án tafar skalt þú halda,
Ef hans vilt hljóta náð.

5. Drag oss úr djúpi nauða,
Drottinn, vort hjálpar ráð,
Glataðra gæti sauða
Þín guðdómlega náð;
Einkum þá æfi hallar,
Eg þess af hjarta bið,
Og kaldur dauðinn kallar,
Þíns kærleiks veit oss alla
Náð, miskun, líkn og lið.

---

## 20. sálmur.

Lag: Náttúran öll og eðli manns.

Eg þá umliðin æfi ár
Endurkalla í minni,
Af augum drjúpa angurs tár',
Eg finn hve mörgu sinni,
Móðgað hef eg,
Á margan veg,
Minn föður ástar blíða,
Syndin rèð fá
Mig ofmjög á,
Eg þó að vildi stríða.
2. Mörg er þó synd og misgjörðin
Mín, sem eg ekki þekkti,
Óvörum tíðum ill girndin

Mig óvitandi blekkti,
Allteins mèr ber
Á síðan þèr
Á því reikning að standa,
Drottinn, sem sèr
Hvað fram hèr fer
Í fylgsnum dýpstu anda.
3 Eg þó ei glæpa ynni verk,
Er refsing manna sæta,
Tilhnegíng ills mig tældi sterk
Til þess ei mín að gæta,
Hugsunum í
Og orðum því,
Einstt að synd rèð hlynna,
Afrækti títt,
Það orð þitt blítt.
Áfýsti mig að vinna.
4. Opin standa nú öll min brot
Augunum fyrir mínum,
Eigin rèttlætis engin not
Eg hef í dómi þínum,
Iðrandi því
Eg feginn flý,
Faðir, á náðir þínar,
Útskúfa mèr
Ekki frá þèr
Illgjörðir fyrir mínar.

5. Ljúfi Jesú, þín líknarhönd
Líkni' oss syndurum aumum;
Sár þyrstri vorri svala önd
Á sönnum náðar straumum;
Blessa þú oss,
Svo blessaðs hnoss
Blessunar þinnar njótum,
Og eilíft líf
Eptir heims kíf
Í þínu ríki hljótum.

---

## 21. sálmur.

Lag: Guði lof skal önd mín inna.

Skírlega þá oss skoðum
Í skuggsjá lögmáls, sjáum vèr,
Að herrans hæsta boðum
Hlýðum ekki, sem vera ber;
Aptur hvarf, iðran sanna,
Að gjöra' af hjartans rót,
Er því þörf alla manna,
Og vinna' á lífi bót,
Endurfæðast í anda,
Íklæðast Kristi hèr,
Að oss ei orki' að granda
Illráður lasta her.

2. Andans framförin fríða
Fullkomnast skal um æfistund,
Dáðríkum dygðum prýða
Dvölina lífs að hinnsta blund,
Ekki af eigin krapti,
Vèr öðlumst þvílíkt hnoss,
Alvaldur, allt sem skapti,
Endurskapar og oss,
Frumneista frjálsráðs anda
Fjörvar ljós orða hans,
Áþekkt mun á því standa
Og ummyndan líkamans.
3. Oss er ei unnt að skilja
Óendanlega gæzku þá,
Er í Guðs æðstum vilja
Alstaðar megum þreifa á,
Allt, allt hann vill til vinna,
Að vèr njótum sælu hans,
Því skyldi það ei hlynna
Að þreklyndi hvers eins manns;
Ávallt því orku neytum,
Allt vort að bæta ráð,
Aðstoðar ætíð leitum
Alvoldugs Guðs hjá náð.
4. Ó Guð af öllum mætti
Eg vil framleggja það hef til
Eg vil með öllum hætti

Ástunda', að gjöra þèr í vil;
Eg vil þín eignin vera,
Og hljóta blessun þín;
Eg vil þann ávöxt bera
Á hverjum blóminn skín,
Syndum og heimi hafna:
Hjálpa þú, drottinn, mèr,
Að láta dygðir dafna,
Dýrstum er líka þèr.

---

## 22. sálmur.

Lag: Dauðans þúngu kraminn kvöl.

Ó þig auman, andi minn,
Illra synda háðan valdi,
Hvar mun finnast hjálparinn
Hrífandi frá eymd og grandi,
Er þig fallinn endurreisi,
Af þèr synda fjötur leysi?
2. Ljósið Guðs ei lýsir þèr,
Liggur þú, sem út af dauður,
Horfinn þèr að öllu er
Ástar drottins nægtar-auður;
Hver mun láta ljós sitt skæra
Lífga þig og endurnæra?
3. Samvizkan þig sekan tèr,

Sèr þú drottins reiði megna,
Heimur, syndin hamla þèr
Herrans boðum frá að gegna;
Finnst ei sá, sem friðar beiði,
Frelsis þig á götu leiði?
4. Er ei til sú hjálpar hönd,
Hrösuðum er aðstoð veiti,
Sálna leysi synda-bönd,
Sorgum lífs í gleði breyti?
Ó jú höndin hjálpargjarna,
Hlíf og styrkur Adams barna.
5. Það er hjálparhöndin þín.
Herra Jesús, líknin manna,
Æ, eg bið þig, minnst þú mín,
Miskunarinn syndaranna
Þú sem kvaldist þýngstu pínu,
Þvo þú mig í blóði þínu.
6. Æ, lát mína aumu sál
Undir þinni tilsjón vera,
Við þinn föður friðar mál
Fyrir mig þú virzt uppbera;
Náðin þín mig huggi, hressi,
Hýrgi, lífgi, styrki, blessi.
7. Dvel þú hjá mèr, drottinn minn,
Dug mèr veit og trúar þrekið,
Að eg, sem þinn elskhuginn,
Illt á burtu fái rekið;

Ávallt sè mín unun sæta,
Allra þinna boða' að gæta.
8. Eg em, Jesús, eignin þín,
Endurkeyptur þínu blóði;
Á því byggir öndin mín
Alla von, minn drottinn góði,
Miskunað' af miskun þinni
Mèr aumstaddri barnkindinni.

---

## 23. sálmur.

Lag: Adams barn synd þín svo var stór.

Mikil fásinna' er mönnum á,
Magn þegar illra girnda sjá,
Yfirbót undan draga,
Öllum er ljóst, að illskan þver
Ávallt hefur í för með sèr
Óvingan hins heilaga.
Óviss er manna æfistund,
Að getur borið hinnsta blund,
Áður en að þeir gæta,
Ófarsældin þeim er þá vís,
Ef aldrei þeirra hugur kýs,
Ráð sitt með röggsemd bæta.
2. Er syndin þá svo ágætt hnoss,

Ánauð hennar svo þægur kross,
Að vèr þeim eptir keppum?
Er hold oss kærra' og heimurinn,
Heldur enn drottins boðorðin,
Vèr svo guðs vingan sleppum,
Á hann að bíða eptir því,
Ámeðan lifum syndum í
Að voru eigin ráði?
Eigum vèr vísa vors Guðs náð,
Þó verði náðin hans forsmáð,
Og biðlund höfð að háði?
3. Ó nei, á meðan til er tíð,
Tíð sú er drottins miskun blíð,
Til bóta vill oss veita,
Hagnýta skulum hana þá,
Og heimsins girndum snúa frá,
En Guðs af alhug leita;
Lífstíð vor allra líður skjótt,
Líður óðum að daudans nótt,
Hug því í hæðir snúum.
Hjálpræðis meðan hnoss ei dvín,
Og himnesk náðarsólin skín,
Til drottins fúsir flúum.

---

## 24. sálmur.

Lag: Upp á fjallið Jesús vendi.

Ó, minn Jesú, á þig köllum,
Aðstoð þína virzt oss ljá,
Að vèr frá þèr aldrei föllum,
Oss þó veröld ginni flá,
Kappkostum af kröptum öllum
Kjörum himnasælu ná.

2. Veit oss ávallt endurtaka
Öll vor heitin drottinn við,
Iðrast, biðja, iðja, vaka,
Alhug leggja' á dyggða sið,
Við hið illa ei til slaka.
Andi þinn oss veiti lið!

3. Hjálp oss öllum endurnýja
Í oss þína sönnu mynd,
Gamla mannsins glæpi flýja,
Girnd sem holdsins þjónar blind;
Gjör oss síðan frjálsa' og fría;
Fága lát oss sannleiks lind.

4. Sálarfrið og sælu hljótum
Svona' ef drottins skrýðumst mynd,
Heimsins ok með hreysti brjótum,
Heyjum stríð við neyð og synd,
Og svölunar sællar njótum
Sannri' í drottins kærleiks lind.

5. Ef því elskum öndu vora
Endurnýjumst þá af rót,
Á oss skulum ávallt skora,
Illsku varast dæmin ljót,
Hertygjaðir hólm á þora
Heimsins afli skæðu mót.
6. Þegar armædd önd vor stynur,
Eymd og syndum þjáð og lúð,
Og jarðneska hreysið hrynur,
Hendi dauðans niðurknúð;
Þá mun sálna sanni vinur
Sæld oss veita' og tignarskrúð.

---

## 25. sálmur.

Lag: Nú bið eg, Guð, þú náðir mig.

Fyrir þèr einum, ó drottinn,
Ekki' er hreinn nokkur maðurinn,
Þó að hinn bezta tækjum til
Að tjá á gjörðum sínum skil,
Andvarpa mundi allteins hann,
Auman sig telja syndarann,
Sem að einatt Guðs boðorð bráut,
Bakaði sèr því sekt og þraut.
2. Ef skyldum dæmast allir vèr
Eptir því sem Guðs lögmál tèr,

Sakfallnir allir yrðum þá,
Örvínglan mundi hjartað þjá;
Óverðugleikinn allra því
Auðsènn er skuggsjá lögmáls í.
Í lögmálinu ei finnst náð
Ef Guðs ei höfum boða gáð.
3. Á öllum hvílir syndasekt,
Vèr syndguðum gegn drottni frekt;
Auðmjúkir flýjum á Guðs náð;
En getur hann þá miskun tjáð?
Já, fyrir dýrsta soninn sinn,
Sáluhjálpara' og drottinn minn
Hann bætti það, sem brutum vèr,
Bót sú hin eina gefin er.
4. Jesú hlýðni er hlýðni vor,
Hans sakleysi vort eykur þor
Til þess að kallast börn Guðs blíð,
Beinlínis náðin verkar fríð,
Að Guðs rèttlátir reiknumst vèr,
Rèttlætið Jesú vort því er;
Æðstu huggun, sem af því rís,
Mín öndin sèr af hjarta kýs.
5. Ó þann Guðs náðar nægta brunn,
Náðlýstrar elsku dýpst afgrunn,
Sökkt getum öllum syndum þar,
Sannrar aðnotið hreinsunar,
Fágaðir, þvegnir fetað þá

Fyrir dómarann himnum á,
Sem oss úthlutar eilíft hnoss
Einúngis fyrir Jesú kross.

---

## 26. sálmur.

Lag: Gleð þig, Guðssonar brúð.

Ó faðir, öll þín heit,
Uppfyllast það eg veit,
Eins mun hið æðsta rætast,
Og vor lífshagur bætast
Er mæddu gafst mannkyni
Í mildum þínum syni
2. Á það heit efalaust
Eg set von mína' og traust,
En ekki á apturhvarfið,
Eða neitt lífsins starfið,
Frelsarans fyrir pínu
Frið veitir barni þínu.
3. Eg trúi, ó drottinn,
Á frelsiskraptinn þinn,
Eg trúi orði þínu,
Árnan, verðleik og pínu,
Af trúnni eg mun hljóta
Allt gott, og sælu njóta.

4. Hún gjörir hólpinn mig
Um hálan lífsins stig,
Rèttlæting hlýt af henni,
Himnesk svo náðin kennir;
Efl hana orði þínu,
Ó Guð í hjarta mínu.
5. Hún hafnar synda sið,
Sameinast, Guð, þig við,
Allt sitt traust á þig setur,
Ást þína dýrsta metur;
Forsmekkinn fær hèr sanna
Á fullsæld himnaranna.
6. Þitt ljósið lýsi hèr,
Lifandi drottinn, mèr
Það tendri trúna mína,
Svo tállaust fái að skína.
Í minni önd og hjarta,
Unz auglit sè þitt bjarta,

---

## 27. sálmur.

Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Sælir eru syndararnir,
Sitt er vilja bæta ráð,
Móti syndum veitir varnir
Voldug drottins hjálp og náð;

Himneskan í hjartað inn
Hann oss sendir anda sinn,
Er oss kallar, kennir, fæðir,
Krapti lífsins sanna gæðir.
2. Eins og vorsól varma hlýjum
Vermir jarðar freðinn svörð,
Geislum lífs úr gullnum skýjum
Gleður, lífgar, frjófgar jörð,
Allteins lífsins alskær sól
Innra mannsins varma ól;
Lífblæ anda ljóssins blíða
Liljur hjartans gjörir skrýða.
3. Slíku skrúði hreinu höldum,
Helgunar sem merkið ber,
Ástar magnið æ margföldum,
Undirrót þess trúin er,
Ljósið trúar látum því
Ljóma voru hjarta í;
Andinn Guðs það ávallt glæðir,
Yndi' og djörfung hjartað gæðir.
4. Ástfúsir við aðra verum,
Ást til Guðs þar styðji að,
Mynd hans fyrst, sem bræður, berum
Bróðernis ást styrki það.
Aðal hugsan sálna sè
Sannar ástir láta í tè,
Einkunn Krists í anda og hjarta

Ástfögur svo nái skarta.
5. Oss þá verður æðsti sómi
Að vèr berum kristið nafn,
Æfi vorrar aðalblómi
Allra dyggða fegurst safn;
Æðsta lífsins unun sú
Andheit bæn og stöðug trú;
Í Guðs ótta verk að vanda
Vitandi hann hjá sèr standa.
6. Krist þá nafnsins kransinn fríði
Krýnir skærri vegsemd oss,
Andans helga blærinn blíði
Blómgvar dyggða fegurst hnoss,
Ást og blíða baða þá
Bræðra' og systra vöngum á.
Sælar má þær segja þjóðir,
Svona hvar menn eru góðir.
7. Ó þú góði Guðdóms andi,
Guðs eilífa vísdóms ráð,
Afstýr frá oss öllu grandi,
Auk oss styrk, og veit oss náð,
Helga þú vort hjarta, sál,
Hugsun, áform, verkin, mál;
Trú, von, ástin ávallt dafni,
Eg þess bið í Jesú nafni.

---

# 28. sálmur.

Lag: Faðir vort sem á himnum ert.

Þú heimsins sanna ljós og líf,
Leiðtoginn gegnum neyð og kíf,
Þú, sem yfirgafst þína dýrð,
Að þínum bræðrum yrði skýrð,
Leiðin að himna hæstum stig,
Herra Jesú, eg bið nú þig:
2. Um villustig eg velkist hèr,
Mig veikan taktu nú að þèr;
Rèttu mèr þína hjálpar hönd,
Heims og syndar að leysa bönd,
Svo víki þeim ei vegi frá,
Vegferð þín sjálfs sem bendir á.
3. Grátbæni eg þig, Guð drottinn,
Glataði' og aumi sauðurinn,
Fyrir þitt eilíft ástarmagn,
Eilíft er sálum vinnur gagn,
Himneska veit mèr hjálp og lið,
Herra, þig að ei skiljist við.
4. Dyggðaskrúðinn, sem skreytti þig,
Skreyti' einneginn, Jesú, mig,
Meðan í heimi hjara á,
Svo hèðan þá eg fara má,
Sú dýrðin auðnist, drottinn, mèr,
Dýrðlegum sem að skín á þèr.

5. Þitt nafnið, Jesú, er það eitt,
Eitt, sem hjálpræðið fær mèr veitt,
Veit mèr frá syndum frelsi' og frið,
Frið og sælu, þá skilst hèr við,
Við það gef að eg traust og trú
Trúglaður festi, ó Jesú.

6. Þitt nafnið eg, minn herra, hlaut
Þá helgrar skírnar að eg naut,
Svo sannarlega sem það ber,
Svo sannarlega vert þú mèr:
Athvarfið blessað, heill og hlíf,
Himnesk sælan og eilíft líf.

7. Eg vil þá ekki hræðast hót,
Hvað illt sem að mèr geysar mót,
Eg, sem friðþægðum föður hjá
Fulltýngis Jesú njóta má.
Hjartað, sál, líf, og hugur minn
Himneskan prísi drottinn sinn.

8. Já, lofi þig, minn lausnarinn,
Lífs míns gjörvalli krapturinn,
Þín höndin styrki hruman mig,
Helgunar svo eg feti stig.
Í lífi' og dauða líkn mèr sýn,
Leið þú mig síðast heim til þín.

---

# 29. sálmur.

Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.

Lof sè þèr, manna lausnarinn,
Líknsami herra, Jesús minn,
Föðurinn sem friðþægðir,
Þó sálin mín sè syndum háð,
Samt á eg vísa drottins náð,
Burt þú hans reiði bægðir:
Eg því
Eymd í
Glaður vona
Guðs á son
Og gæzku' hans skæra,
Miskun, líkn er mèr nam færa.
2. Þau heitin skulu huggun mín,
Sem heilög orðin boða þín
Syndþjáðum sonum manna;
Þá miskun allteins mæni' eg á,
Mæddum syndurum er rèðst tjá,
Kýs hina sömu kanna,
Eg fæ
Frið æ
Sæll þá skoða
Sönn þau boðin,
Sátt er veittu
Þeim, sem mest þèr móti breyttu.

3. Útbreiddan sè þinn ástarfaðm,
Á þinn því náðar hníg eg baðm,
Og heyri hljóminn skæra:
„Kom þú mannskepnan mædd og þjáð,
„Mína hèr skalt þú öðlast náð,
„Eg vil þig endurnæra;
„Engan
„Eg þann
„Burt mun reka
„Synd í sekan
„Sem að kemur
„Með ósk um náð öllu fremur."

4. Enginn syndari efist því,
Nè örvæntíngu falli í,
Heldur af hjarta segi:
Ó Jesú, þú ert athvarf mitt,
Eg reiði mig á loforð þitt,
Um eilífð bregzt það eigi;
Ást þín
Skær skín
Hún mig leiðir,
Hún burt eyðir,
Hvers kyns efa,
Himnesk mun mèr gæðin gefa.

---

## 30. sálmur.

Lag: Hver sem að reisir hæga byggð.

Frelsarinn Jesús flytur oss
Friðar boðskapinn sanna:
Að frelsis sè nú fengið hnoss
Fráhorfnu kyni manna,
Og herrans köllun harla blíð
Hljómar til vor um alla tíð:
Komið til kærleiksranna.

2. Sáttmála við oss sjálfur Guð
Samdi, þá skírðir vorum,
Veitti oss andans ástfögnuð,
En honum tryggðir sórum,
Og heitin standa herrans merk,
En hvað sýna vor eigin verk?
Breyskleik með brotum stórum.

3. Ó, herra Jesú, þökk sè þèr,
Þú leizt á vorar nauðir,
Friðarröddin þín frammæler:
Fráhorfnir mínir sauðir,
Komið, yður hið bezta' eg býð,
Blessaða mína kvöldmáltíð,
Komið í trú ótrauðir.

4. Þegar þú dýrstur, drottinn minn,
Döggvar mig blóði þínu,
Og mèr hèr veitist máltíðin,

Minningin þinnar pínu,
Unun og fögnuð önd mín fær,
Útvalning himnesk svölun ljær.
Hjartanu hrellda mínu.
5. Hjartans fús vil eg, herra minn,
Hlýða röddinni þinni,
En veit míns anda vanmáttinn
Varnandi framkvæmd minni;
Fyrir þèr gef eg finni náð,
Fulltyngi veit í lengd og bráð
Breysklyndri barnkindinni
6. Heyr þú, ó Jesú, hjartans raust:
Herra, lát engan falla
Syndara' í glötun líknarlaust,
Leyf honum þig ákalla.
Eg dupt og aska, drottinn minn,
Dýrstann bið fyrir soninn þinn:
Ó faðir, frelsa alla!
7. Ó faðir lát þú anda þinn,
Oss andlegt fjörið veita,
Svo að Krists náðar-köllunin
Oss knýi til hans leita;
Helgunar í oss hafið verk
Þín himnesk efli náðin sterk;
Heyr þú andvarpið heita!

---

## 31. sálmur.

Lag: Oss lát þinn anda styrkja.

Oss Jesús auglýst hefir
Guðs eilíft kærleiks ráð,
Sá sem því gaum að gefur,
Og girnist slíka náð,
Hólpinn verður, og heillin sú
Einúngis af hans flýtur
Öruggri' á Jesúm trú.
2. Hinn, sem því gaum ei gefur,
Geymir ei trú á Krist,
Enga von um það hefur,
Að öðlast himna vist;
Á trúnni ríður allramest,
Iðkum það út hún heimtar
Í voru hjarta bezt.
3. Þekkíngu þurfum hafa
Þríeinum Guði á;
Vita án nokkurs vafa.
Að vilji hans er sá,
Að himneskt öðlumst hjálpar ráð,
Af því frækorni frjóva
Framkemur andans náð.
4. Samsinna hèr næst hljótum,
Því heita orðin Guðs,
Og því, að eflaust njótum

Alls hins mikla fögnuðs,
Er Jesús Kristur ávann heim,
Lífgast þá fræið frjóva
Fjörgeislum andans þeim.
5. Af hug og hjarta bæði
Hèr næst vor löngun sè,
Andleg þau öðlast gæði,
Er Jesús lèt í tè
Þá synda vorra sekt hann bar,
Hreifíng þá látum helgu
Heita getnað trúar.
6. Djörfúng þá hjartað hlýtur,
Og hugar öruggt traust,
Að það Guðs góðu nýtur
Gæzkunnar efalaust,
Náðar fyllíng úr býtum ber,
Frið og fögnuðinn skæra,
Fæðíng það trúar er.
7. Lífsins og ljóss uppspretta,
Lifandi drottinn minn,
Tendra' í oss trúna rètta,
Til þín svo ástfólginn
Í hverri leiti lífsins þörf,
Og fagran ávöxt færi
Við fjölbreytt skyldustörf.

---

# 32. sálmur.

Lag: Allt eins og blómstrið eina.

Sál mín, þá sælu skoða,
Sem trúin veitir þèr,
Hinn fagra fyrirboða
Farsældar meðtak hèr;
Þitt lífið grannt að gættu
Í gleði eins og hryggð,
Í engri ert þú hættu,
Ef Jesú sýnir tryggð.

2. Eg veit á hvern eg trúi,
Allt þá gengur í vil,
Eins er sem auðnan snúi
Mèr öllu gleði til
Allt er það, Guð minn góður,
Gjöfin frá einum þèr,
Vorn fyrir bezta bróður
Þú býttir öllu mèr.

3. Eg veit á hvern eg trúi,
Þá að ber lífsins þraut,
Þó baki brátt að snúi
Hið blíða lán og skraut;
Á Jesúm eg þá kalla,
Og bið hann líkna mèr,
Þar fæ eg ásjá alla
Eflaust, sem hentust er.

4. Eg veit á hvern eg trúi
Öll við mín lífsins störf,
Þó ami eymd og lúi,
Aðstoð, nær gjörist þörf,
Veitir mèr veikum drottinn,
Viljann minn lítur á,
Sú vissa von er sprottin
Vors Jesú orðum frá.
5. Eg veit á hvern eg trúi,
Þá angrið særir brjóst,
Og þó mín brot mèr búi
Böl og hryggð leynt og ljóst;
Í Jesú náðar nafni
Á náðir Guðs eg flý,
Svo mínum meinum hafni
Miskunar faðmi í.
6. Eg veit á hvern eg trúi,
Þá að ber harma stund,
Þó vinir frá mèr flúi
Fjötraðir dauðans mund;
Í ljós minn Jesús leiddi
Lífið og sælu þá,
Er hann af ást tilreiddi
Oss mönnum himnum á.
7. Eg veit á hvern eg trúi,
Þá aðber dauðans blund,
Því dyggu drottins hjúi,

Við dagsins hinnstu stund,
Verðlaunin verða gefin,
Veitt af einskærri náð;
Á því er enginn efinn
Það er af Jesú tjáð.
8. Eg veit á hvern eg trúði
Í dauðans sorga dal,
Þá skær rèttlætis-skrúði
Mig skrýðir lífs í sal,
Og dýrð sè, drottinn, þína
Í dýrð þèr æðstum hjá;
Æ, trúna efl þú mína,
Að hljóti' eg blessun þá.

---

## 33. sálmur.

Lag: Himnarós, leið og ljós.

Drottinn minn, þjónninn þinn
Það eg játa:
Ánauð þjáir Oss, og spáir
Eymd lífs;
Adams blóð, Í heims þjóð
Æst nam renna,
Sálin þá, Syndum á
Sárt rèð kenna.
2. Meðan hèr, Mæld oss er

Margbreytt æfi,
Angurs hríðin, Eymd og kvíðinn
Opt sker;
Heimur synd, Hvers kyns blind
Heiptir vekja,
Vilja því, Ánauð í
Einatt hrekja.
3. Ei vort megn, Orkar gegn
Afli slíku;
Fèsjóð vænum, Vèr því rænumst,
Vor Guð;
Hjálp oss við, Herra', eg bið,
Hjálpargjarni,
Hrynd burt pín, Hjástoð sýn
Hrelldu barni.
4. Auk oss þor, Að svo vor
Æfin renni,
Að vèr getum, Öflgir fetað,
Í trú;
Himin frið, Haldið við,
Hèr þó stríðum;
Illsku her, Að þá ber,
Engu kvíðum.
5. Volk og neyð, Veröld, deyð,
Við þó stríði,
Ei lát þverra, Ó, minn herra,
Afl það,

Traust og trú, Trúr sem þú
Tendrar fjöri;
Það sem er, þakknæmt þèr
Það eg gjöri.
6. Vert mín hlíf, Líkn og líf,
Lífs um stundir.
Þegar dauða, Dapra nauðin
Dregst að,
Vert þú þá, Helzt mèr hjá,
Herra blíði,
Leið í frið, Ljúft eg bið,
Lífs úr stríði.
7. Öll burt sorg, Er mín borg
Alheims vörður,
Þar fæ skjólið, Þar er sólin
Sí-skær;
Glaður nú, Geng í trú,
Grát þó reyni;
Eyðir vist, Æðst hjá Krist
Alls kyns meini.

---

## 34. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Vèr skulum allir gefa' að gætur,
— Það gleðji vora trú og von, —

Hvílíkar á oss hefir mætur
Heimsins lausnarinn og Guðs son,
Limir nefnumst hans líkamans,
Líka bræður og vinir hans.
2. Arfleifðar sömu og hann njótum,
Í upphæð þegar komum vèr.
Í trúnni ganga að eins hljótum,
Um þann tíma, er dveljum hèr;
Ó, það arfleifðar himneskt hnoss,
Sem herrann Jesús ávann oss.
3. Andann sinn helga oss hann
sendir,
Að auka sálum trúar styrk,
Hann oss á takmark himins bendir,
Hèr þó lífsbrautin gjörist myrk;
Hann sigrar með oss hverja þraut,
Og heimsins af oss fjötra braut.
4. Frelsíngjar Krists því allir erum,
Ekkert er þvílíkt heiðursnafn,
Einkunn hans tignar á oss berum,
Ó hverri veru' er maður jafn?
Gæt þú þess maður, Guði því
Gjörvöllu þjóna lífi í.
5. Í duptið, faðir, drýp eg niður
Þá dýrð hugleiði', er gafst þú mèr,
Mannskepnu svo að minnist viður,
Miskunin sú af öllu ber.

Um eilífð gjörvallt sálnasafn
Sífellt vegsami, Guð þitt nafn.

---

## 35. sálmur.

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

Munnur af hjartans mælir gnægð,
Meinþrúngin ef þar leynist slægð,
Illskunnar orð framstreyma;
Auðsgnóttin vizku ef þar býr
Ástmögnuð, lífsins kraptinn skír
Orðin munns í sèr geyma.
Orðin hafa það mikla magn,
Mönnum vinna hið æðsta gagn,
Hreinum tærð hjarta' af sjóði,
Allt um það finnum allir vèr,
Í orðum manna' ei fólginn er
Meginafls-mátturinn góði.
2. En hefur ekki hèr á storð
Hljómað skærra en manna orð,
Orð, sem afl gjörvallt geymir,
Orð, sem að vizkan í býr há,
Orð, sem að drottni skýrir frá,
Úr hugsan hans því streymir;
Orð, sem að flutti friðargjörð

Föllnu mannkyni hèr á jörð,
Villu og vafa eyðir,
Brýzt gegnum manna merg og bein,
Mýkir og læknar gjörvöll mein,
Og dauðann sjálfan deyðir?

3. Ó jú, það eru orðin þín,
Ó Guð, og þeirra ljóminn skín,
Aðalmagn lífsins lýða;
Íturskær eru sunna sú,
Sem breiðir geislahaf sitt nú
Yfir veröldu víða;
Kotúng lýsir í hreysi hans
Og höll uppljómar keisarans
Með geislum guðlegs anda;
Ljós þegar sólar loksins dvín,
Ljóminn hennar hvað fegurst skín,
Því orð Guðs eilíf standa.

4. Guðfögur þessi sannleiks sól,
Sem hið gjörvalla lífið ól
Um alheims allar byggðir,
Lýsi hennar svo ljóminn oss,
Að lífsins fáum dýrust hnoss,
En forðumst flærð og lygðir;
Hennar oss skulum halda til,
Af hennar kærleiks vermast yl;
Hún fjör og frelsi veiti,
Myrkranna drúnguð dróma ský

Dreifist, en birtan skær og hlý
Um lífsins leiki reiti.

---

## 36. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Af orði þínu, ó drottinn,
Innra manns flýtur helgunin,
Uppeldið henni' ei orka kann,
Og ekki heldur náttúran;
Undirbýr hjartað andi þinn,
Er hann helgunar-lífgjafinn.
2. Þitt orð er oss hin æðsta hvöt,
Að ekki gjörist sál vor löt,
Að vinna' á lífi beztu bót,
Bresti varast og dæmin ljót;
Það má því heita mark og mið.
Í manna fögrum dyggða sið.
3. Bókstafur dauður ei það er,
Andann og lífið með sèr ber
Til að helga vort sinn' og sál
Samhuga bæði verk og mál;
Blessanin, faðir blíði, þín
Berlega á þess krapti skín.
4. Ó hversu farsæll er sá mann,
Er orðs þíns geymir sannleikann,

Sem blómrík eik hann er að sjá,
Sem aldin spretta fögur á;
Velþóknun góðra vinnur hèr
Vegsemd æðstu með sjálfum þèr.
5. Ó drottinn, veit að andi þinn
Í mèr hafi sinn bústaðinn.
Þitt visdóms orðið vísi mèr
Veginn dyggða, sem líkar þèr,
Svo lífs gjörvalla megnið mitt
Mikli samhuga nafnið þitt.

---

## 37. sálmur.

Lag: Í dag eitt blessað barnið er.

Lausnari heimsins lof sè þèr
Lífs fyrir orðið sanna,
Sem þú af kærleik kenndir hèr
Kyni syndugra manna;
Það er það ljós, er lýsa skal
Um lífsins þenna myrkva dal,
Svo veginn rètta rötum;
Í skuggsjá þess oss skoða ber
Skaðræðið synda, svo að vèr
Velferð ei vorri glötum.
2. Færum oss, bræður, nægst í nyt

Náðar meðalið góða,
Ei látum hverfa eins og þyt,
Það orðin drottins bjóða,
Meðtökum þau af hreinum hug,
Hjá oss þau veki sannan dug,
Lífsins vegferð að vanda,
Og á Guðs óttans beinu braut,
Þó beygi synd og mæða' og þraut,
Ávallt stöðugum standa.
3. Hótanir þeirra hrelli lund
Og hepti girnda æði,
Andvaraleysis banni blund,
Og blíðlátt synda næði;
Þau huggi vora hrelldu sál
Og himneskt boði friðarmál
Iðrandi önd, sem grætur,
Svo hún fögnuði fullum í
Friðþæging öðlist æ á ný
Frelsara síns við fætur.
4. Þíns anda krapt lát oss í tè,
Ó blíði faðir hæða,
Að unaðsemd vor æðsta sè
Um orðið þitt að ræða;
Það sè mót syndum vissust vörn,
Að veröld ekki lastagjörn
Vèli' oss á villu slóðir;
En að guðhræðslan glæðist ný,

Og gróðursetist sálum í
Farsældar friðsæl móðir.

---

## 38. sálmur.

Lag: Guðs vors nú gæzku prísum.

Gjafarinn lífsins gæða
Gaf einnig kraptinn máls
Til gagns og gleði að ræða,
Guðs er hann einkunn sjálfs;
Vor unun sönn því sè,
Og málsins æðsta iðja,
Ákalla Guð og biðja,
Lof honum láta í tè.
2. Og þá vèr á hann köllum,
Oss ber helzt gæta' að því,
Að til hans fóta föllum
Fullkomnri auðmýkt í
Með ekkert eigið traust,
Ásjár svo æðstu leita,
Oss mun þá drottinn veita
Áheyrslu efalaust.
3. Örvæntum ekki hrelldir
Um drottins líknarráð,
Þótt sèum ánauð seldir,

Sönn miskun hans og náð
Veslum veitir ásjá,
Blóð fyrir lambsins blíða
Burtnemur hegning stríða;
Það treystum eflaust á.

4. Oss því aldreigi reiðum
Á eigin verðugleik,
Úr brjósti efa eyðum,
Þótt öndin vor sè veik,
Í auðmýkt, ást og trú
Leitum lausnarans manna,
Líkn mun hann veita sanna;
Hrelldra sè huggun sú.

5. Ef ekki' úr býtum bærum
Bænheyrzlu, fyrr enn að
Hennar verðugir værum,
Verk og orð gjörðu það,
Guð hjálpi góður mèr;
Góðs alls á mis þá gengjum,
Og gjöldin synda fengjum
Um eilifð eins og hèr.

6. Kenn þú oss breyskum biðja,
Blessaði Jesús minn,
Vor andvörp virzt að styðja,
Við himna föðurinn;
Unn oss um æfistund,
Unaðsemd í því hafa,

Í trúnni við þig skrafa,
Þinn uns að fáum fund.

---

## 39. sálmur.

Lag: Á Guð alleina.

Æðst sálar iðja,
Iðkuð í trú og von,
Sè sú að biðja,
Svo hefur kennt guðsson,
Hann rèð og heita
Himna föðurs ásjá
Hverjum sem leitar
Hans náðir hljúgur á,
Og þá aðstoð veita,
Er honum bezta sá.

2. Guðs gæzkan hreina
Gefur og hverjum það,
Mest bót sem meina
Mönnum fær orðið að;
Ei hann því hefur
Hinn einn og sama hátt,
Greitt sumum gefur
Geð sem óskaði kátt,
Trúr á stundum tefur,
Tilbjó og annað þrátt.

3. Opt bljúgt þá biður
Barnið, hann veitir náð,
Styrkir og styður,
Og strax þess bætir ráð;
Faðir friðsæli!
Frá horfnu líknar því,
Alls kyns inndæli
Auðsýnir raunum í,
Veitir hjálp og hæli,
Þá hættan ber að ný.
4. Ásjá optlega
Alvitur slær á frest,
Á ýmsa vega
Ástfólgna reynir mest.
Bezt er að bíða
Bænheyrzlu drottni frá,
Stöðugt að stríða,
Styrk mun hann til þess ljá,
Bót á böli' og kvíða
Brátt vill hann gefa þá.
5. Einatt alfaðir
Áheyrn ei veitir því,
Heimsku hjúpaðir
Hèr sem að fýkjumst í;
Hann sèr hvað hagar,
Hans ráð er alltènd bezt,
Líknsemd hans lagar

Lífs kjör að farsæld mest;
Heims þá hverfa dagar,
Hans vizka skýrast sèzt.
6. Algæzkan góða,
Gef mèr að biðja þig,
Þú, faðir þjóða,
Þreyzt ekki' að heyra mig;
Eg ásjá þinni
Árangur bæna fel,
Allt eign í minni
Og mig á vald þèr sel,
Þína' að þóknan finni,
Þá er mèr borgið vel.

---

## 40. sálmur.

Lag: Skapari stjarna, herra hreinn.

Til þess guðræknin gjörist ör,
Og glæðist andans sanna fjör,
Bænræknin er hið bezta ráð
Blessaðri veitt af drottins náð.
2. Bænin er eyðing eymda kífs,
Æða sláttur hins sanna lífs;
Í bænarlausri býr ei sál
Betrunarlíf nè trúarmál.
3. En af trúrækni tendruð sál,

Til himins sendir andans mál
Með heitri bæn á hverri stund
Á herrans leitar náðarfund.
4. Hún bíður Guðs í bæninni,
Hún bilast ekki' í voninni,
Hún þreytir dýrstan drottinn við,
Unz drottinn henni veitir lið.
5. Ó hversu mikil er þín náð;
Eilífa guðdóms hjálparráð,
Að hafa megi þvílíkt þor
Þessi duptklæddi andi vor.
6. Þegar bænin mín hrein og heit
Hjartans gagntekur allan reit,
Eg þá unaðsemd æðstu finn
Af þinni nálægð, drottinn minn.
7. En bænin mín er opt svo köld,
Það eru minna synda gjöld,
Verm hana þínum ástaryl,
Ásjónu þína mèr ei hyl.
8. Blíði drottinn, nær bið eg þig
Bræðurna fyrir eða mig,
Ásjá veit þú aumum mèr,
Eptir því sem að hentast er er.
8. Veit að sè æðsta unun mín
Andheita bænin, Guð, til þín;
„Þá líf og sál er lúið og þjáð
Lykill hún sè að þinni náð".

# 41. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Minn Jesús, önd af auðmýkt klökk
Þèr æðstu hjartans flytur þökk,
Mèr lèzt þá huggun hèr í tè,
Að heyrð sú bænin jafnan sè,
Sem eg í auðmýkt anda míns
Uppsendi' að stóli föður þíns.

2. Það lèttir sorg en lífgar hug,
Og lènar sálu styrk og dug,
Að varpa sèr, þá aðber þraut,
Ó faðir, á þitt náðar skaut,
Og leggja öll sín efni' og ráð
Á vald þitt speki, gæzku, náð.

3. Þann fögnuð eg mèr æðstan tel,
Að þegar syrta hryggða el,
Að andvörp mín og angurstár
Einn telur þú, minn drottinn hár,
Og lítur æ í líkn til mín;
Líkn þín er næst í þýngstu pín.

4. Kem eg nú og vil knýja á
Með kramið geð og hrellda brá,
Hið þrúngna brjóstið bölið sker,
Ó blíði faðir, opna mèr,
Í trausti Jesú eg þess bið,
Alskært og dýrðlegt náðarhlíð.

5. Bæn mína, faðir blíði, heyr,
Og blessun veit mèr langtum meir,
En eg get fávís upphugsað;
Allt veit þú mèr af mildi það,
Af hverju farsæld er mèr vís,
En ekki það, sem holdið kýs.

---

## 42. sálmur.

Lag: Heimsins stýrir forsjón fasta.

Lífnar andi, hugur, hjarta
Helgrar skírnar minníng við,
Lífshelgunar lindin bjarta
Lífsins streymir gegnum hlið;
Þangað berast börnin smá
Braut lífs fyrr en þekkja' og sjá;
Þrenníng guðdóms því vèr færum
Þökk og lofgjörð hljómi skærum.

2. Syndar, dauða, sorga mökkvi
Svífi burt, sem þoku ský,
Fyrir geislum Guðdóms hrökkvi,
Gleðisól þá ljómar ný
Yfir skærri skírnar lind,
Skaparans hvar laugast mynd,
Og hvar lífsins aðalkjarni
Innlífast þar skírðu barni.

3. Eik á lífsins aldinskæra
Úngt þá blóm er gróðursett,
Hún það gjörir hýrga' og næra,
Himinblóm að verði rètt;
Úr himneskum höfga því
Hennar kransi vöknum í,
Yfirskyggðir æðstum krapti.
Oss til sælu lífs er skapti.
4. Í hins hæsta skugga' og skjóli
Skapað er oss fram að gá
Himnesku að höfuðbóli,
Hvar hann sjálfan munum sjá.
Ó það sanna sælu' upphaf
Sjálfur Guð í skírn oss gaf,
Óðalsrètt þar himins hlutum
Heilags anda gáfna nutum.
5. Andinn góði Guðs oss leiðir
Götum villu ótal frá,
Hann oss veginn himins greiðir
Hverjum feta skulum á
Í frá skírn um eymdadal,
Unz vort daga fyllist tal,
Af náð þetta allt vèr hljótum,
Árnaðar því Jesú njótum.
6. Ó þann mikla ástarvottinn,
Ó þá miskun, gæzku' og náð,
Oss sem veitir æðsti drottinn

Ástar fyrr en þekktum ráð;
Aldrei gleymi önd vor því,
Oss sem skírn hann veitti í.
Gleði og þökkin glöggt sig laugi
Grátvotum í hvarmabaugi.

---

## 43. sálmur.

Lag: Konúng Davíð, sem kenndi.

Vèr þegar skírðir vorum,
Vors drottins hlutum náð,
Eið honum einnig sórum
Ávallt hans stunda ráð,
Ei þó því gáfum gaum,
Eðlið holds oss því spillti,
Og burt frá drottni villti
Í hættan heimsins glaum.

2. Syndanna mikla magnið
Mjög rèð oss hlaðast á,
En sálar sanna gagnið
Sízt gjörðum stunda þá,
Sál vor saurugleik bar;
Sakleysis blóminn blíði,
Barnsins helg skírnarprýði,
Hvervetna horfinn var.

3. Ó minn Guð, eg þèr játa

Afbrotin mörg og stór,
Eg rauf í allan máta
Eið þann, er dýrstan sór,
Skírnar ei skeytti náð;
Sál mín er syndum vafin,
Saurugleik holdsins kafin,
Og illu einatt háð.
4. Litlar eg gaf að gætur
Guðsríkis skyldum þeim,
Er drottinn ákvað mætur
Oss rækja' í þessum heim,
Ótrúr þjónn eg því var;
Frið, kærleik sízt eg sinnti
Að sannleik ekki hlynnti;
Hugði' ei til helgunar.
5. Ó minn Guð, eg vil snúa
Illskunnar vegi frá,
Eg vil nú feginn flúa
Frelsarans náðir á;
Mín skírnar heilög heit
Eg vil nú endurtaka;
Í auðmýkt til þín kvaka;
Áheyrn mèr aumum veit!
6. Döggva mig dýrstu blóði
Drottinn, úr frelsis lind,
Á Golgata fram sem flóði,
Fágar það alla synd;

Veit þú mèr þrek og þrótt,
Föllnum á fætur standa,
Framvegis lífið vanda
Að dauðans dimmri nótt.
7. Frelsari frelstra þjóða,
Frelsari einnig minn,
Gef mèr þinn andann góða,
Geymi mig kraptur þinn,
Synd mig ei saurgi meir;
Rèttlætis skrýð mig skrúða
Skartinu sálar prúða:
Hjartans bæn mína heyr!

---

## 44. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Rèttlætis skrúða skartið hvítt
Í skírn þèr veittist sál mín, nýtt,
Jesús þig skrýddi skarti því.
Að skyldir þú þeim búning í
Framkomið geta fyrir hann,
Fullsæl í himna æðstum rann.
2. En hversu flekkað hefur þú
Hörmulega það skartið nú,
Syndanna ljótan blett við blett
Á búning dýrstan hefur sett,

Ef að þeim verðar af ei náð,
Ei fær þú heldur drottins náð.
3. Jesús eymd þina vissi vel,
— Vegsamað sè hans ástarþel —
Hans því miskunin hrein og blíð
Helga tilsetti kvöldmáltíð,
Bergíngin á hans blóði þar
Bótin er andans saurgunar.
4. En þú skalt, sál mín að því gá,
Ef þú vilt slíka lækning fá,
Að í auðsveipni ást og trú
Að herrans máltíð gangir þú;
Sameina þú þig svo sem mátt
Sjálfum honum á allan hátt.
5. Upprennur sjóndýrð æðsta mèr
Guðs ástar ljóman sem að ber,
Eg þegar kropinn em á knè
Í anda þig, minn drottinn, sè
Og síðan meðtek sjálfan þig,
Sú náð er óumræðilig.
6. Hugsvölun öðlast hjartað mitt,
Þá heyri' eg, Jesú, ávarp þitt:
„Kom þú mannskepnan mædd og þjáð,
„Mína til þess að öðlast náð,
„Í faðmi mínum fær þú ró,
„Frið og unan sem eg þèr bjó".
7. Ó Jesú, einskær ástin var

Undirrót þínnar holdgunar,
Hugsanir orð og öll þín verk
Einkennin kærleiks báru merk,
Einskærust samt þín elskan skín
Í þinni miklu kvöl og pín.
8. Allt þetta mikla ástarmagn,
Er eilift veitir sálum gagn,
Í eina heild er samansett,
Og síðan að oss aumum rètt
Í kærstri Jesú kvöldmáltíð,
Kærleik æðstan er boðar lýð.
9. Einskær miskunin er þèr rètt,
Þá ert þú, sál mín, þar borðsett,
Og hluttekníng þèr hlotnast ný
Heimsins lausnara sjálfum í;
Himneskan þá þinn herra bið,
Helgunar þèr að veita lið.
10. Drottinn minn, kom þú nú með náð,
Nú bið eg um þitt hjálparráð,
Nú er framreitt þitt náðarborð,
Nú hljómar skýrt þitt lífsins orð;
Öndu mína nú undirbú
Anda þíns krapti, minn Jesú.
11. Iðrunar drjúpi tárin tær,
Trúna veika þú endurnær,
Angurglöð voni öndin mín

Á árnan þína' og bitru pín,
Æ, hrind því burt, sem hjartað sker,
Helga þú mig nú allan þèr.
12. Heyr það, Jesú, í hvert eitt sinn,
Þá helgasta eg líkam' þinn
Meðtek, og blessað blóðið þitt,
Bezt sem að læknar hjartað mitt,
Unun, líf, blessun, önd þá mín
Öðlast af fyllíng náðar þín.

## 45. sálmur.

Lag: Dauðans þúngu kraminn kvöl.

Sameiníngar sannrar nýt
Sjálfan við þig, Jesús blíði,
Ástarvottinn æðsta hlýt,
Öllum sem að veittir lýði,
Þá eg bergi' á blóði þínu;
Bitrar þinnar minnist pínu.
2. Eg þar skoða allra bezt
Ástardjúpið megin skæra,
Náðar dýrst hvar nægtin sèst,
Nauðstöddum er hjálp skal færa.
Engin túnga út kann ræða
Undur slíkra náðar gæða.
3. Lifna við mitt sinni' og sál,

Sjá og skoða dásemd mesta;
Hræri túngu hjartans mál,
Herrans elsku prísi bezta.
Allur lífs míns aðalkraptur,
Elska þú þinn drottinn aptur.
4. Ó því skyld' ei andi minn,
Elska þig í lífi' og dauða,
Heimsins ljúfi lausnarinn,
Lausn sem veittir flokknum sauða
Og þá dýrð, sem aldrei þrotnar,
Í því ríki, sem þú drottnar.
5. Eðli mannlegt helgun hlaut,
Holdi þá þú voru klæddist,
Jörðin heiðurs hæsta naut,
Hèr á meðan leiðst og mæddist;
Valdi myrkurs illu eyddir,
Allt í ljósið sannleiks leiddir.
6. Þetta lífs og líknarráð
Ljómar fyrir sálu minni,
Allt mèr veitt af ást og náð,
Í míns Jesú máltíðinni;
Guðdóms ástar geislinn skæri
Gleðji mig og endurnæri.
7. Ást bróðernis blossi því
Blíð og hrein til allra manna,
Hjarta voru heitast í
Herrans fyrir blóðið sanna;

Eindrægir í anda verum,
Einn líkami því vèr erum.
8. Einn er drottinn, ein skírn, trú,
Einn vor Guð og blíði faðir,
Himnesk sè vor huggun sú,
Hennar unaðs njótum glaðir;
Máltíð þín, minn drottinn dýri,
Dásemd slíka bezt oss skýrir.

---

## 46. sálmur.

Lag: Hver sem að reisir hæga byggð.

Jesús friðþægíng fullgild er
Fyrir brot allra manna,
Eilíft því hjálpráð öllum sker,
Er trúna geyma sanna,
Hverein einneginn hlýtur sál,
— Svo heilagt vottar drottins mál, —
Sældar kjör sömu kanna.
2. Sál mín, kom þú og svala þèr
Á sönnu Jesú blóði,
Friðþægíng þín því orðin er
Allteins frelsarinn góði,
Veika trúna þar verm og nær,
Vöxtinn guðlega því hún fær

Af drottins dreyra flóði.
3. Þá blóðs hans dýri bikarinn
Berst þèr, og sjálfs hans hylli,
Sannur uppnýjast sáttmálinn
Sjálfs Guðs og þín á milli;
Aldrei gleymir hann aumri þèr,
Ótal þó mergðin sálna er,
Hug þinn það huggun fylli.
4. Hans lífsins kraptur lífgar þig
Í lífs þíns neyð og kvíða,
Að þekkir bæði' og sjáir sig
Sáluhjálparann lýða;
Þá synd og eymdin sárt þig sker,
Sinn bikarinn hann rèttir þèr:
Friðþæging, fróun blíða.
5. Bikar kærleiks það einnig er,
Unað hjartanu veitir;
Í hverju sem að höndum ber,
Hrellíng í friðinn breytir,
Bróðernis ástarbikar skær,
Bikar frelsis, svo yndið grær
Hvar ánauð afli beitir.
6. Blóðs þíns kaleik þá bergi' eg á,
Blíði lífgjafinn manna,
Öll lèttist mæða eymd og þrá,
Eg sem hèr verð að kanna;
Eg vígist þá til yndishags

Og eilífs dýrðar samfèlags
Hvar eg sè bezt hið sanna.

## 47. sálmur.

Lag: Ó, drottinn alls valdandi.

Lofum drottinn lifanda,
Líkam og sál sem veitti oss,
Og gæðin Guðdóms anda,
Glaðværðir lífs og hvert eitt hnoss;
Æðstu von oss sem gefur,
Einka son sent oss hefur,
Karl og kvon kærleiks örmum vefur.
2. Lofum drottinn lifanda
Lifandi dyggða verkum með,
Af hreinu hjarta' og anda
Hans stundum ávallt ástargeð:
Eins og börn honum hlýðum,
Hjálpargjörn vilja blíðum
Þeim, sem vörn þurfa' í lífi tíðum.
3. Lofum drottinn lifanda
Líkjumst hans dæmi bezt sem má,
Sem blíðan ástar anda
Einnig vondum hèr gjörir tjá;
Villta frá vondu leiðum,

Veginn þá lífs þeim greiðum,
Föður hjá friðar þeim og beiðum.
4. Lofum drottinn lifanda,
Ljúfan vorn föður himnum á,
Í trúar traustum anda,
Þó torsótt lífið verði' að sjá:
Hún sè vor sigur sanni,
Sendi þar veikum manni,
Gleði spor ganga' í heimsins banni.
5. Lofum drottinn lifanda,
Ljúfan vorn föður himnum á,
Í vissum vonar anda,
Vonleysan mest þá hrellir brá;
Hann mun náð helzt oss sýna,
Heims þá ráð afli týna,
Í lengd og bráð líkn hans ei mun dvína.
6. Lofum drottinn lifanda
Lífs vors um alla æfitíð
Í sönnum sonar anda,
Sífelld því er hans náðin blíð,
Sál og líf lofi drottinn,
Lán og kíf ber þess vottinn,
Heill og hlíf honum sè frá sprottin.

---

## 48. sálmur.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

Íhugum, bræður, oss hve ber
Orku stakrar að neyta,
Svo að lifa, að sífellt sèr
Sannkristnir megum heita;
Hyggjum og hèr næst að:
Herrann sjálfur er það,
Sem veikum veitir dug,
Vottum því þrek og hug,
Eptir hans boðum breyta.
2. Þó að oss vaxi augum í
Ákveðin skyldu störfin,
Hugstyrkir verum, herrann því
Hjálpar nær mest er þörfin.
Hann er vor hjálp og stoð,
Hans þegar rækjum boð;
Látum ei hold nè heim
Oss hrekja grand frá þeim,
Nè telja' oss trúarhvörfin.
3. Oftreysta skulum aldrei samt
Aflinu holdsins veiku,
Oss sem að er þó ofurtamt,
En því svo hætt að skeika.
Af eigin orku hèr

Alls ekkert megnum vèr,
Þó byrjum, brestur þrótt,
Bilar og vizkugnótt,
Líkt og þá börn sèr leika.
4. Oftraust því látum aldrei ná
Í oss að festa rætur,
Vantraust ei heldur verki' oss á,
Vilji Guðs sá er mætur.
Iðjum af alhug það,
Oss sem drottinn ákvað,
Með traustri trú á hann,
Trúfasta hjálparann;
Gefum þess allir gætur,
6. Vor Guð, sem bæði vilja' og mátt
Veitir þeim, er þig biðja,
Oss breyska styrk á allan hátt,
Að gjörvöll lífs vors iðja,
Ó faðir þóknist þèr.
Þèr einum dýrðin ber;
Heims þegar hræðast börn,
Hafa ei þrek nè vörn,
Þitt aflið oss mun styðja.

---

## 49. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Vèr allir, sem að Jesúm játum,
Þá játníng sönnum trúnni með,
Í athöfn hverri' og orði látum
Ásannast blíðast kærleiks geð,
Metum veglegast vizku hnoss
Vorn Jesúm, sem að dó á kross.

2. Vèr, hverjum friðar fregnin blíða
Fagurhljómaði eyrum í,
Að friðarboðans fótum skríða
Frelsis leitandi náðum því,
Sárþreyttir bæði á hold' og heim
Höndum ástar hann gripum tveim: —

3. Heyrum Guðs raddar hljóminn skæra:
„Hygg að maður og vert þú trúr,
„Lát þú þig ekki fet eitt færa
„Frelsarans Jesú sporum úr
„Allt til dauðans, þó efldur her
„Eymd, synd og mæða sæki' að þèr.

4. „Í dauða lát ei dug þinn þverra,
„Djarflega tak þú honum mót;
„Heyr þú hvað ljúfur lífsins herra
„Leggur við sæla meina bót,
„Korónu lífs skal krýnast sá

„Krists trúi þjónninn himnum á." —
5. Fest þú sjónir á svoddan hnossi,
Sál mín, og ávallt reynstu trú;
Að þíns frelsara krjúp þú krossi,
Kærleiks þar aflið hlýtur þú;
Þrautgóð svo dyggða þreyttu slóð —
Þóað það, kosti líf og blóð.
6. Ó drottinn, eg í auðmýkt kvaka.
Eg vil kappkosta' að reynast trúr,
Ávallt stríðandi' vinna' og vaka,
Væran unz sofna hinnsta dúr.
Æ, styrki veika máttinn minn,
Minn Guð, himneskur kraptur þinn.

---

## 50. sálmur.

Lag: Guðsson kallar: komið til mín.

Ástríki faðir, eilífð frá
Ástin þín skín oss mönnum á,
Sú ást, er aldrei þverrar;
Ó því skyldi' ekki önd vor klökk
Af alhug flytja lof og þökk
Þèr, æðsti ástar herra.
2. Þín óskabörnin erum vèr,
Sem ótal föður velgjörðer
Af ást einskærri veitir;

Já, gafst oss sanna soninn þinn,
Sem oss opnaði himininn,
Og vist þar vissri heitir.
3. Ofmikil vanþökk væri það,
Vèr ef ei þessu gáðum að,
Með þverúð það meðtækjum;
Lýsum því orði' og athöfn með,
Að drottins þekkjum kærleiks geð;
Hans boðin blessuð rækjum.
4. Ástin er Jesú æðsta boð
Undirrót skyldna' og máttarstoð,
Ástríkir æ því verum;
Elskum drottinn af heilum hug,
Helgunar sýnum vilja' og dug;
Svo einkunn ástar berum.
5. Einn föður fyrst að eigum vèr,
Ástin bróðernis lýsi sèr
Í drottins ástar anda,
Þreytumst aldrei að gjöra gott,
Góðfýsis ávallt sýnum vott,
Mýkjandi mein og vanda
6. Dýrð sè þèr súngin, drottinn minn,
Þín dásöm ástarblessunin
Yfir oss ávallt streymi,
Börn þín hún laði blíð að sèr,
Svo blessun sanna hljótum vèr
Hèr og í æðra heimi.

# 51. sálmur.

Lag: Guðsson kallar: komið til mín.

Umfram allt ber oss elska þá
Eilífu veru himnum á,
Sem allt af ęlsku skapti;
Guðhræðslan í því geymd er bezt,
Gleðin samvizku eykst þá mest
Djörfúng með dáð og krapti.
2. Fram fyrir drottinn föllum þá,
Föður ástríkan köllum á,
Ást hans því eigum vísa;
Úr hjörtum vorum hrekjum synd,
Heilagri skrýðumst drottins mynd,
Oss mun þá ljós hans lýsa.
3. Hins sannguðhrædda mark og mið
Mest er, að elska rèttlætið,
Sannleik og sannar dyggðir,
Hann því að veit að herra sinn,
Hinn alfullkomni Guð drottinn,
Hatar mjög lesti' og lygðir.
4. Ástin vor hreinsast æ við þá
Ást, er vèr höfum Guði á,
Allt því hans elskum vegna;
Allt hið góða er ástgjöf hans;
Ást Guðs sè djásnið hjartarans,
Hitt annað hennar þegnar.

5. Guð er fullnógur sjálfum sèr,
Af sönnum kærleik hljótum vèr
Tilveru gagns og gleði;
Guð er vor faðir, hjartað, hlíf,
Hans náð oss veitir eilíft líf.
Lofum hann ljúfu geði.
6. Lof sè þèr, góði Guð drottinn,
Gleðin vors lífs og huggunin,
Von, traust og vegsemd æðsta;
Allt það, sem hefur andardrátt,
Avallt sýngi af hug og mátt
Lof og dýrð hinum hæsta.

---

## 52. sálmur.

Lag: Rís upp mín sál að nýju nú.

Ó, hversu maður sæll er sá,
Er sálarkappið leggur á,
Guðs vilja góðum hlýða,
Sá sælu krans
Er sèr hvers manns
Sælunnar upphaf blíða.
2. Oss á að vera unun það,
Svo æðri sælu miði að
Í dyggðum áfram keppa,
Í lengd og bráð

Þann lífsins þráð
Lát' ei úr hendi sleppa.
3. Ei skulum hugsa hèr um laun,
Því herrann þjónum sendir raun,
Að æfist aflið gefna;
Blóm dyggða braut,
Þó beygi þraut,
Beint skulum áfram stefna.
4. Ef ættum hverja eptir raun
Úttaka henni verðug laun,
Fljótt slíkt framförum hnekkti,
Oss eigingirnd
Þá æsti blind,
Og ást í burtu hrekti.
5. Ó faðir, veit að þjóninn þinn
Þèr verði jafnan auðsveipinn
Í trúnni hèr þèr hlýði,
Álíti kross sem ástar koss,
Og allt til dauðans stríði.
6. Gef sameining við sjálfan þig
Sífellt á æðra komist stig,
Og veiti von inndæla,
Að verði mèr
Í vist með þèr
Viss fullkomleikans sæla.

---

# 53. sálmur.

Lag: Til þín heilagi herra Guð.

Í hverju sem að höndum ber,
— Hver einn má glöggt það skilja —
Einka-úrræðið ávallt er,
Að lúta drottins vilja,
Og fela alvísri föðurnáð
Ferilinn lífs og gjörvallt ráð,
Sól þegar harmar hylja.

2. Eg vil innræta ávallt mèr
Undirgefnina mæta,
Hvort sem, minn drottinn, þóknast þèr,
Mig þjáníng láta græta,
Armæðu, fátækt, eða hvað,
Í trúnni ef eg meðtek það,
Von það mèr veitir sæta.

3. Hvað svo sem, faðir, þóknast þèr,
Það er ætíð hið bezta,
Hugsun sú eina hugfró er,
Þá harmar gleði lesta.
Verði á mèr vilji þinn,
Þó böl eg bíði mesta.

4. Trú mín örugg á einum þèr,
Alvitri faðir blíði,
Sigrar allt það, sem mætir mèr,
Í megnu lífsins stríði;

Þá heims ógnanir hrella mig
Mig hressir trúin ein á þig
Eg svo að engu kvíði.
5. Jesús minn, veikum veit þú þrótt
Vilja þíns föður hlýða,
Auðsveipinn hug og hjartað rótt,
Þitt himneskt ljósið blíða
Upplýsi trúar sanna sjón,
Svo að hún eygi lífsins frón
Gegnum mökk mótgangs hríða.

---

## 54. sálmur.

Lag: Konúng Davíð, sem kenndi.

Í auðmýkt eg nú renni
Augunum, Guð, til þín,
Mikilleik þinn meðkenni,
Mèr sem hvervetna skín,
Þú faðir alls, sem er,
Þú, sem að gott allt gefur,
Gætur á öllu hefur,
Þèr lotníng ljúfust ber.
2. Þú, Guð, ert allt i öllu,
Eg má dupt telja mig,
Er geði með gjörvöllu
Gjöri að móðga þig

Og blygðast má því mín;
Bljúgur eg brot mín játa,
Breyskleik í allan máta;
Á miskun mæni þín.
3. Minni em miskun þinni
Minn Guð, er aldrei dvín,
Mèr stendur fersk í minni
Margreynda náðin þín,
Sem breyskum býtist mèr;
Auðmjúkur eg mig beygi
Undir þitt vald og segi:
Verði hvað þóknast þèr.
4. Ó, þú drambsemin illa
Allskonar lasta rót,
Mig skalt' ei megna' að villa
Mjög á lastyrðin fljót
Gegn vísri Guðdóms stjórn,
Ofsann geðs eg vil brjóta,
Ánægju lífsins njóta,
Og þakkar flytja fórn.
5. Burt lundin þrjózkra þræla,
Þèr ljæ eg ekki rúm;
Burt þau forlög, er fæla
Frelsið og auka húm;
Burt rænu' og ráða þrot;
Burt þú heims háttur blindi,
Hvikull, sem strá í vindi,

Eg hef þín engin not.
5. Auðmjúkur eg vil kvaka:
Alvitri faðir minn,
Æ, virztu að þèr taka
Aumstadda þjóninn þinn,
Ráð þú, þú ræður bezt;
Unað afneita mínum
Eg skal, en vilja þínum
Hlýða, sem má eg mest.

---

## 55. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Drambið er synda' og dauða móðir,
Drottni það stríðir mest í gegn,
Evu það ginnti' á glæpa slóðir
Og gjörði Adam synda þegn,
Og þeirra niðjar eru því
Ófarsæld sömu fallnir í.
2. Drambi, megnustu mannkyns plágu,
Mennirnir unna heldur dátt,
Það heillar hina háu' og lágu,
Það hafa þykist nógan mátt;
Einskis það þolir yfirráð.
Og enga finnur þörf á náð.

3. Þú dupt og aska, drambið lægðu,
Af drottins allt þú þiggur náð,
Hrokanum burt úr hjarta bægðu,
Í hendi Guðs er allt þitt ráð,
Ofurþúng verður höndin hans
Á hroka og drambi syndugs manns.
4. Varpa því þèr í auðmýkt undir
Almáttuga Guðs náðarhönd,
Hún þótt þig agi' á allar landir
Auðmjúkt hirtíngar kyss á vönd;
Agann meðtak sem ástar vott,
Ekkert vill drottinn nema gott.
5. Hans miskun fel þú öll þín efni
Ávallt í sorg og raunum hress,
Með allri hjartans undirgefni
Auðmjúkt í trúnni væntu þess,
Að allt til góða gjöri þèr
Guð, sem miskunin einskær er.
6. Þá mun hans náð af náð þèr veita
Náðar og yndis fegurst hnoss,
Hryggð og mæðu í hagsæld breyta,
Himneskt sigurmark gjöra kross;
Þetta faðirinu flytur þèr
Þá farsæld þinni hentast er.
7. Æðsta huggun í heimi þessum
Hjartans tel eg sè auðmýkt sú,
Að gefa sig með anda hressum

Undir Guðs stjórn í von og trú;
Á því guðhræðslan glöggvast sèst
Gimsteinn trúar og spekin bezt.
8. Ó faðir, vert þú allra faðir,
Auðmjúk gef að þín sèum börn,
Um allar lífsins aldaraðir
Ávallt sèrt þú vor sól og vörn;
Ber oss um feril farsældar
Í faðmi þinnar miskunar.

---

## 56. sálmur.

Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Með lotníngu fram vèr föllum
Á fótskör þína, drottinn minn,
Lofgjorð hefjum hljómi snjöllum,
Himnesk því að blessunin,
Streymd frá máttkri miskun þín,
Mönnum ætið dásöm skín;
Þó er lífsins lindar brunnur.
Langt frá því oss ei fullkunnur.
2. Líkams, andar æðstu gæði
Af náð þinni hljótum vèr,
Auður, völd og vegsæld bæði
Veitt af þinni gæzku er;
Alheims drottinn, ekki neitt

Endurgjald þèr fáum veitt,
Þakklátt nema þel og hjarta,
Þar sem trúgóð ástin skartar.
3. Hver ein stundin allra æfi
Ástavottinn drottins ber
Það oss veitir vel í hæfi,
Vizkan hans er hentast sèr;
Því skal allt mitt trúartraust
Til hans vera efalaust,
Hvergi drottins hjástoð yggja,
Hèr þó vilji margt áskyggja.
4. Mèr skal ljósið lífsins orða
Lýsa skært um æfibraut,
Hugsýkis mèr hættu forða,
Harma mýkja', og lètta þraut.
Guðs musteris meginraust
Marg samhljómar endalaust:
Vantrúaður vert' ei, maður,
Von á drottni bygg þú glaður.
5. Eg skal treysta einum drottni
Í því sem að höndum ber,
Eins þó lífið líkams þrotni,
Líf og skjól hann verður mèr.
Dauðann eg ei hræðist hót,
Hels nè völdin myrk og ljót,
Sigurhróss eg sönginn ljóða
Soninn fyrir drottins góða.

---

# 57. sálmur.

Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Ó, þú maður, hugar hrelldi,
Hèr á jörð sem dvelja átt,
Þörf og mæðu' og syndum seldi,
Sízt þinn bili trúar mátt,
Fús að drottins fótum krjúp,
Fáð' að sjá hans ástardjúp,
Út á það, þó allt þèr hafni,
Óhult legg í Jesú nafni.

2. Þegar lífsins þörfin beygir
Þig, og hótar margri nauð,
Ferðabæn þá fram þú segir:
Faðir, gef mèr daglegt brauð,
Öruggt síðan áfram halt,
Allt þitt leggja fram þú skalt;
Guðdóms djúpið gæzku skæra
Gnæga mun þèr blessun færa.

3. Margföld þegar mæða' á dynur,
Megnið sálar þverrar ótt,
En hún örmædd undirstynur
Ætlar missa fjör og þrótt;
Bið þú Jesúm lið þèr ljá,
Legg þú síðan djúpið á,
Þá mun miskun Guðs þíns góða
Gnægð og svölun næga bjóða.

4. Þegar sál þín syndum kafin
Sèr ei framar bjarga má,
Angri, hrellíng, hættum vafin
Hjálp og svölun girnist fá:
Náðþurfandi niðurkrjúp;
Í náðar drottins megindjúp
Hrellínga og hryggða nökkva
Hjartans feginn mátt þú sökkva.
5. Þegar endar þitt hèr lífið,
Þess og lægist ólgusjór,
Aðber dauðans dapra kífið
Í drottins nafni hugarrór
Legg þú út á dauðans djúp,
Dimmum sveipað myrkra hjúp,
Þá á ströndum lífs munt lenda,
Lífið hvar ei tekur enda.

---

# 58. sálmur.

Lag: Til þín, heilagi herra Guð.

Elskan er sálar æðsta hnoss,
Elskunnar faðir blíði,
Af Guðdóms ást sem gæddir oss
Guðfagri sálarprýði,
Þig einan eigum elska mest,

Allt, sem að sálin vor á bezt,
Þèr einum þjóni' og hlýði.
2. Syndum sprottinni svikarót,
Sjálfselsku, skulum hafna,
Drambseminnar sú dóttir ljót
Drottni oss telur jafna;
Hún er undirrót eymda kífs,
Eyðíng hins rètta sálar lífs,
Ónáð Guðs á oss safnar.
3. Eins og frækorn ei ávöxt ber,
Utan það deyi' og rotni,
Eins getur ekki glæðst í mèr
Gjöf andans nema þrotni
Sjálfs elskan öll, að sálin frí
Sönnu kærleikans lífi í
Æ hlýði einum drottni.
4. Drottins vors Jesú dæmi að
Drottni í auðmýkt hlýðum,
Afneitum sjálfum oss, en það
Ástfúsum vilja líðum,
Sem ljúfur faðir leggur á;
Leggjum það til, sem framast má,
Að gegn því illa stríðum.
5. Allt það sem erum, erum vèr
Af kærleik Guðs einskærum;
Drottni því einum dýrðin ber,
Drottni þakkargjörð færum,

Til drottins hefjum hug og sál,
Heimsins umflýjum vald og tál,
En andans auðmýkt lærum.
6. Vil eg, minn drottinn, venja mig,
Vilja þínum að hlýða,
Meðan þín gæzkan guðdómlig
Gefur mèr frestinn tíða,
Að tamt mèr verð' að þjóna þá,
Þegar eg síðar himnum á
Skal þinna boða bíða.

---

## 59. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Miskunsemdanna mildi faðir,
Af miskun allt sem veitir gott,
Miskun þína vèr miklum glaðir
Mildi og ástar ber hún vott,
Og oss auðsýnir ávallt bert
Að þú vor Guð og faðir sèrt.
2. Sem faðir þú oss elskar, agar,
Elur, verndar um lífsins skeið,
Kjörum og stöðum hentast hagar,
Hjástoð veitir í alls kyns neyð,
Umlíður synd og oss í sátt
Aptur tekur þó brjótum þrátt.

3. Ef vèr ei skulum af oss brjóta
Ást og náð þína, faðir kær,
Hlutdeildar í þeim heitum njóta,
Sem heilög boða orð þín skær.
Af saurgun holds og sálar hèr
Sannlega þurfum hreinsast vèr.
4. Í helguninni áfram keppa,
Elska, heiðra og tigna þig,
Úr huganum þèr aldrei sleppa,
Algæzkan, heilög, guðdómlig,
Allt eins og fyrir augum þèr
Allt það vinna, sem störfum vèr.
5. Öruggur gegn því illa stríða,
Útrýma synd og lasta her,
Með alúð á þitt orðið hlýða,
Ávallt kostgæfa' að líkjast þèr,
Og hyggja þar að harla grannt
Í hverju' oss sè ábótavant.
6. Oss styrk þú til þess Guð minn
góður,
Og gef oss helgan anda þinn;
Fyrir þinn son vorn bezta bróður
Burtskúf'a oss ekki, drottinn minn;
Endurnýja þú hjarta' og hug,
Helgunar veit oss styrk og dug.

---

# 60. sálmur.

Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Ó, þú geislinn Guðdóms skæri,
Gegnum streymdur mannkyns sál,
Þú, sem lífgar, hressir, hrærir,
Hugsun, áform, verk og mál,
Ást til Guðs og manna mæt,
Megin-unun lífsins sæt,
Himinbúa hnossið góða,
Hrós og prýði jarðar þjóða.

2. Fylling lögmáls fríð þú heitir,
Fullkomnari trú og von,
Þú um eilífð afl oss veitir
Æðstan prísa mannsins son,
Þú skuggsjáin skaparans,
Skýrir rètta eðlið manns,
Sýnir oss í sælum ljóma
Sannleik drottins leyndardóma.

3. Þegar ást þá æðstu sýndi
Einka-soninn gaf hann oss,
Þann, sem veröld þjáði, píndi,
Þann, hún deyddi loks á kross;
Hann dó fyrir heimsins synd,
Hjálp þèr veitti aum mannkind,
Upp, upp allur kærleiks kraptur
Konúng dýrðar elska aptur.

4. Elska bræður, boð Guðs fylltu,
Bæt úr raunum sèrhvers manns,
Leið á rèttan veg þá villtu,
Vert þú styrkur aumíngans,
Umlíð bresti, uppgef sök,
Að því jafnan leið þú rök,
Að þitt eðlið unaðs dýra
Engin túnga kunni að skýra.
5. Á þèr vinnur enginn dauði,
Eilíf því að varst þú gjörð,
Himinlífs þú hrósar auði
Hafin burt af vorri jörð;
Í sjón þá trúin sèst óleynd,
Sæl uppfyllist von í reynd,
Ein þú heldur æðstum blóma,
Umkringd drottins kærleiks ljóma.
6. Guðleg ást til Guðs og manna
Gnæg í minni sálu bú,
Hef mitt líf til lífsins sanna,
Lífga' og styrk þú mína trú,
Að mig skilji ekki neitt
Í frá þeim, er hefur veitt
Soninn mèr og sælu blíða,
Sem ei raskar breytíng tíða.

---

# 61. sálmur.

Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Eins og að skuggsjá skaparans
Skýrist í manni þeim,
Sem lyptir hug til himnarans,
Hans girnist dýrðarseim;
Eins dregur myndin innra manns
Allshendis þar af keim,
Þegar að lyst og löngun hans
Laðast að þessum heim.

2. Varast' því heimsins vèla tál,
Við hann ei kærleik bind,
Ágæt og vegleg ó mín sál,
Eptir Guðs sköpuð mynd;
Guðssonar döpur dauðaskál
Dauða þíns er línkind,
Og andans helga einka-mál
Uppspretta' að sannleiks lind.

3. Þetta himneska hjálparráð
Hvetji þig, sála mín,
Eilífa Guðs að eignast náð,
Á því er nauðsyn brýn,
Varastu' að vera heimi háð
Hans lysting gjörvöll dvín,
Lífsins herra í lengd og bráð
Ljúfustu þjónkan sýn.

4. Hygg þú að það er hverful stund,
Hèr sem þú dvelja átt,
Að getur dauðans borið blund
Bráðlega dag sem nátt,
Holds-glysið allt og heimsins mund
Hèr við þú skilja mátt;
Atkvæði Guðs um gefið pund
Gjörast mun þá uppskátt.

5. Þótt þú dveljir í heimi hèr
Til himins samt þig bú,
Þar sem þitt óðal eilíft er;
Í sannri von og trú,
Hvernig svo sem um heiminn fer,
Huganum þangað snú;
Bið drottinn lið að leggja þèr,
Á líknar vald hans flú.

---

## 62. sálmur.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

Vors Jesú dæmið dýra
Daglega eigum vèr
Láta, sem lýsing skýra,
Lífs feril kenna hèr;
Það blæinn ástar bjarta
Ber ljóst til syndugs manns,

Á oss því á að skarta
Ástin til náúngans.
2. Ást sú má aldrei dvína
Um alla lífsins tíð,
Og ágæt ástverk skína,
Alúðleg, nytsöm frið,
Oss hlífa ekki megum
Þó ervið skyldan sè,
Allt fram því leggja eigum,
Allt bræðrum láta í tè.
3. Ástin til Guðs ei getur
Gagntekið eðlið manns,
Utan þar eigi' aðsetur
Ástin til náúngans;
Hann er í Guðs mynd gjörður,
Guðs-barnið fyrir Krist,
Á sömu settur jörðu,
Og sama búin vist.
4. Hann vèr hvervetna sjáum,
Hann vor jafníngi er,
Aðstoð hans einatt fáum,
Einatt hann þökk oss tèr;
Eðli vort út því krefur
Elskunnar blíðu hót
Hvern við, sem hjá oss tefur,
Af hjartans allri rót.
5. Ást sá ei bræðrum býtir,

Bræðrum, sem er hann hjá,
Ei heldur ást, sem hlýtir,
Á drottni hefur sá;
Trúna því dapra' og dauða
Daglega í sèr ber,
Afls og atorku snauða,
Ástvana lifir hèr.
6. Ástvana' í öðru lífi,
Ást Guðs ei hlýtur sá,
Ástsnauðu eymda kífi
Ástlausir sál hans þjá.
Ástar uppsprettan sanna,
Ástar lát strauminn þinn
Ást með til allra manna
Ástfrjófga huga minn.

---

## 63. sálmur.

Lag: Kom, skapari heilagi andi.

Ó hversu farsæll er sá mann,
Er vilja drottins stundar fús,
Um alla hlýtur eilífð hann
Alsældar vist, er bjó Jesús.
2. Hinn sem ei þessu gefur gaum,
Glysmál veraldar elskar dátt,

Ofagnaðs kýs sèr kjörin aum,
Kætin hennar því dvínar brátt.
3. Íhugum þetta, bræður, bezt,
Burtrýmum heimsins elsku því,
Umflýjum það af alhug mest,
Ófarsæld sem oss steypir í.
4. Snúum huganum heimi frá,
Hann bindum ekki fèlag við;
Festum himninum hugann á,
Hèr meðan eigum stundar bið.
5. Aðhyllumst Guð af allri sál,
Ástar hans ljósan sýni vott,
Áformin gjörvöll, iðjan, mál;
Ó hversu það er manni gott!
6. Gott er að þjóna Guði, því
Geldur hann beztu verkalaun;
Gott, þó vèr rötum eymdir í
Örstutt því verður lífsins raun.
7. Og eilíf blíðan blasir við,
Börn sín upphefur drottinn þá
Í himna dýrð og hæstan frið,
Hvern engin túnga skýra má.
8. Ó það sælunnar æðsta hnoss,
Um eilífð sem að gleður mann.
Drottinn minn, kenn þú öllum oss,
Að þekkja gjörla sannleik þann.
9. Heimurinn hversu hættur er,

Hversu mjög lystíng öll sú dvín,
Og sá einn gott úr býtum ber,
Sem blíða hlýtur elsku þín.
10. Lausnari, þú sem leystir mig,
Lífi helgunar gæddir bezt,
Æ, veit mèr náð að elska þig,
Það unun hjartans veri mest.
11. Þá mun eg, dýrsti drottinn minn,
Dýrðar njóta með sjálfum þèr,
Hèrvist þá þver, og heimurinn
Horfinn gjörvallur verður mèr.

---

## 64. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Þú, kristni maður, hygg að hèr,
Hugföst sem að þín velferð er,
Daglega flyzt þú dauða að,
Dag hvern lát hann þig minna' á það:
Að eptir dauðans dapurt kíf
Dómur kemur og eilíft líf.
2. Þú fyrir höndum átt það allt,
Alvarlega því reikníng halt
Um þitt líferníð ár og síð,
Iðrast á meðan fær þú tíð;

Frá illu strax í æsku snú;
Aðhyllst þú Guð í sannri trú.
3. Vanda þú þín öll verk og ráð,
Vera lát þau ei mönnum háð;
Drottinn er sá sem dæmir þig,
Drottins því boða hald þú stig;
Geðþekkni ekki met þú manns
Meir enn velþóknun dómarans.
4. Að feta dyggða ferilinn
Sè fúsust hjartans löngunin,
Og iðka þær um alla stund,
Allt fram að þínum hinnsta blund,
Tem þú þèr ekki heimsins hátt,
Við hann sem mest þú losast átt.
5. Bæn og þakkargjörð þèr sè töm,
Þín má ei hyggjan vera fröm,
Meðlætið iðran minni á,
Mátt þinn í auðmýkt virzt að tjá,
Vizkan guðrækið votti geð,
Velsæld góðverkum sýn þú með.
6. Lífið að meta lær þú rètt,
Lærdómstíð er það manni sett,
Hvort sem að gengur með eða mót
Megni þèr ekki' að raska hót;
Halt þú stöðugur himinleið
Í hvers kyns gleði, sorg og neyð.
7. Á Guði haf þú heita ást,

Hugardramb aldrei lát þú sjást,
Guðsóttann hjá þèr geym þú bezt,
Gjörvalla von á drottni fest;
Kunngjör þú miklu miskun hans,
Mildi og náð til syndarans.
8. Lær þú drottni að lifa hèr,
Lærdómstíð meðan veitist þèr,
Í drottni þú munt deyja þá,
Drottni um eilífð vera hjá;
Drottinn þèr í því leggi lið;
Líkn hans skilji oss aldrei við!

---

## 65. sálmur.

Lag: Kom andi heilagi.

Ein drottins ástargjöf
Er lífið, bræður,
Hvers eins hèrveru töf
Hans vizka ræður.
2. Af drottins ást og náð
Er lífið gefna,
Miskunar mætan þráð
Má það og nefna.
3. Að eins er líf samt lèð,
Lán það rètt notum,

Það annars endast með
Eymd í fjörbrotum.
4. Ef í synd eyðist tíð,
Og illum verkum,
Ófarsæld ógnar stríð
Í dauðans kverkum.
5. Hin flogna fæst ei tíð,
Þó fegnir vildum
Glöggt, meðan gefst hún blíð,
Þess gæta skyldum.
6. Oss tíðin byrjun ber
Böls, mæðu, kífsins,
Hún líka upphaf er
Hins æðra lífsins.
7. Það andans aðalhnoss
Ástundum hljóta,
Á meðan auðnast oss
Hèr æfi njóta.
8. Ef verjum æfitíð,
Að drottins vilja,
Víst unun verður blíð
Við heim að skilja.
9. Við hinnsta hverfur blund
Hryggð, mæða, kífið,
Þá öðlast unaðsstund
Hið æðra lífið.
10. Lát oss svo lifa hèr,

Vor ljúfi faðir,
Að sælu erfum vèr
Um eilífð glaðir.

---

## 66. sálmur.

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

Ó drottinn, hversu er þitt ráð,
Einskær speki og kærleiks náð
Aumstöddum oss til handa,
Oss, sem í heimi eigum dvöl,
Oss, sem að reynum margs kyns böl,
Volæði, freistni, vanda;
Aðstoð þín veitir afl og þrek
Oss, þó að mæðan særi frek,
Þrautgóðum hèr að þreyja
Og hyggja rètt að heimsins rýrð,
Hègómans gegnum alla dýrð
Eilífa fullsæld eygja.
2. Ó gleði þá, að þekkja bert
Þú vor drottinn og faðir sèrt,
Himins og jarðar herra,
Almættis þíns og ástar verk
Oss eru kunn, svo stór og merk,
Að trú vor ei má þverra.
Örmædd þá sálin andvarpar,

Engrar fær notið huggunar
Í lífsins eymd og ama,
Náðar boðskapur blíður þinn
Blessaðan veitir fögnuðinn
Hjartanu trúar tama.
3. Himneskan vin vèr eigum að
Ó hvílík gleðifregn er það,
Meðalgangarann manna,
Hann, sem oss veitti heill og lið,
Himins sælu og andarfrið,
Jesúm þinn soninn sanna,
Allur vor kvíði' og kvelling dvín,
Kærleiksrík hljómar miskun þín,
Eymdþjáðum mönnum móti;
Lítilvæg er vor hörmúng, hryggð,
Hjá þeirri gleði' í sælubyggð,
Er þú villt allir njóti.
4. Ó drottinn hvílík heill það er,
Að helga lífið einum þèr,
Og trúna á þèr festa;
Vèr þurfum þá ei hræðast hót,
Á hörmum lífsins verður bót,
Þeir breytast til hins bezta.
Eilífi kraptur í oss bú,
Auk þú oss þrekið von og trú,
Hugrakkir hèr að stríðum,
Kostgæfandi að hljóta hnoss,

Er herran Jesús ávann oss,
Og þess öruggir bíðum.

---

## 67. sálmur.

Lag: Gleð þig, Guðssonar brúð.

Ó hve völt er þín von,
Ugglausi heimsins son,
Hana þó holdið gylli,
Hjartað glaðværðum fylli;
Hvikult er heims ágæti,
Hans brygðul lyst og kæti.
2. Þótt hafir heilsu, fjör,
Og hvers kyns sældar kjör,
Brátt kann það allt að endast
Og eymdin mörg þèr sendast;
Fljótt bæði fjöri og auði
Þig firrir kaldur dauði.
3. En hversu sæll er sá,
Sem drottni byggir á,
Von og traust hèr í heimi,
Honum því aldrei gleymir
Alheims forsjónin fríða,
Föðurleg mildin blíða.
4. Hans er Guð heill og skjól
Og himnesk gleðisól,

Allt þegar honum hafnar
Og hörmum lífið safnar,
Heims gjörvallt hverfur yndi,
Hvikult sem strá í vindi.
5. Í hæð því huga snýr,
Á herrans náðir flýr,
Löngun ber hjartans heita
Hans eptir vilja breyta;
Af honum alls góðs vonar
Í trausti mannsins sonar.
6. Í sannri sælu von,
Sem veitti mannsins son,
Glaður og geðrór segir:
Glys heims og sældar vegir,
Á burt með allt ágæti,
Auðlegð, velsæld og kæti.
7. Þú heimur, þinn far veg,
Þín ekki sakna jeg;
Á Jesúm eg vil vona,
Arfleifð kosinna sona
Gefst mèr í himna höllu,
Hvar Guð er allt í öllu.

---

# 68. sálmur.

Lag: Heiðrum vèr Guð af hug og sál.

Ástkæru, vèr sem eigum vist
Arfleifðar fyrir Jesúm Krist
Heilögu ríki himins í,
Hyggja skulum vèr grannt að því,
Að vort heimilið ekki' er hèr,
Eins og ferðamenn teljumst vèr,
Heimkynnið rètta' í upphæð er.

2. Sem vegfarendur verðum þá:
Varúðar gæta jörðu á:
Girnðunum ekki gefa taum,
Gjálífis forðast illan straum,
Hjartað ei binda heiminn við,
Hèr meðan eigum stundar bið,
Nè treysta á hans traust og lið.

3. Allt fyrir þetta eigum vèr
Að iðja það, sem vera ber,
Og köllun vora rækja rètt
Ráðvandlega í hverri stètt;
Missa samt sjónar aldrei á
Aðalbólinu drottni hjá,
Margbrotið lífs við mæðu stjá.

4. Það tjáir ekki' að tefja við
Tímans rás hefur enga bið;
Hugglaðir þreytum himinskeið

Heimsins í gegnum sæld og neyð.
Faðir, veit þú oss frelsi, ráð,
Fulltyngi, blessun, styrk og náð,
Eilíft sælu að eignast láð.

---

## 69. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Ástríki manna elskhuginn,
Elskunnar brunnur, Jesús minn,
Kærleikans boð sem kenndir oss,
Kærleiksríkastur dóst á kross,
Frelsíngja þinna gef þú geð
Glæðist kærleikans eldi með.
2. Geislann af þinni Guðdóms ást
Glögglega lát þú í oss sjást,
Ástar þar kvikni eldheitt bál,
Allan gagntaki hug og sál;
Sú ástin verði veröld skýrð,
Og vegleg Guði súngin dýrð.
3. Þar sem öndin er ástarsnauð,
Eins er sem að hún væri dauð;
Lífið vort gjörvallt láttu því
Lífinu kærleiks helgast í;
Efl þú í fylgsnum innra manns
Elsku til Guðs og náúngans.

4. Ást sú sè bæði heit og hrein,
Hjartfólgin oss í allri grein,
Atorkufull og iðjusöm,
Ósèrhlífin, en þó ei fröm;
Áform vor bæði orð og verk
Einkenni hennar sýni merk.
5. Ástarlíf þvílíkt efli þinn,
Ó Jesú, helgi krapturinn;
Ástar sólin þín íturskær
Útsendi geisla fjær og nær,
Og vermi hjörtun hörð og köld;
Hreki burt synd og myrkra völd.
6. Friðarins Guð, og faðir vor,
Friðarins veit að rekjum spor,
Ástfólgin friðar blessun blíð
Búi meðal vor ár og síð;
Leið oss í ástar æðsta frið
Á síðan, þá hèr skiljumst við.

---

# 70. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Þegar vèr lítum lífið á
Leiðir margbreyttar er að sjá;
Hugarfar manna allteins er
Ólíkt næsta, það reynum vèr;

Sundrúngin vill því verða mörg,
Verð' ekki fundin einhver björg.
2. Eining andans er björgin bezt
Við bandið friðar nákvæmt fest,
Sameinuð hreinni hjartans ást,
Hvervetna' er láti vottinn sjást,
Í blíðu jafnt sem böli hèr,
Að bræður og systur sèum vèr.
3. Þetta friðsæla fèlags lag
Farsælir allan lífsins hag,
Unað stráir um æfibraut,
Og alla mýkir lífsins þraut;
Guðs blessan fylgir gjörðum þess,
Glaðværandi og hugarhress.
4. Sælt má heita það heimili,
Sem hefur slíka eindrægni,
Þar á guðhræðslan griðastað,
Guð og hans blessan fylgjast að,
Þar má forsmekk með fúsri lyst
Finna af sannri himnavist.
5. En þar sem eining andans þver,
Og ósamlyndið sundur sker
Friðarans band, en úlfbúð ein
Á sèr rætur í hverri grein,
Þar má með hrellíng heyra' og sjá
Helvítis sambúð jörðu á.
6. Friðarins Guð og faðir minn,

Friðarins anda send oss þinn,
Svo að í friði saman vèr
Sífellt lífum til dýrðar þèr,
En sálu vorri í heill og hag
Að himneskt öðlumst samfèlag.

---

## 71. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Ó, þú meistarinn manna góði,
Mönnum sem skyldna sýndir stig,
Og af ástfýsis fögrum sjóði
Framleiddir dæmin kærleikslig,
Ekki dæmdir þú aðra hèr
Enda þótt brytu móti þèr.

2. Þú bannaðir oss bræður dæma,
Sem bærum sama veikleikann,
Þú kvaðst það ekki kristnum sæma,
Að kveikja last um náúngann
Þú bauðst að bróður einlæg ást
Í orði hverju skyldi sjást.

3. Unn oss að hlýða orðum þínum
Og ekki dæma náúngann;
Unn oss að vèr í öllu sýnum
Umburðarlyndi' kærleikann;

Unn, að ei dæmum aðra hèr,
Svo ekki dæmumst sjálfir vèr.
4. Því skyldi sekur sekan dæma
Og sekta með því auka megn,
Og hinn breysklyndi brot útflæma,
Bróður síns allri skyldu gegn,
Sverta hans orðstír, og með því
Ætla sèr veitist frægðin ný.
5. Ómilda dóma' ei dæmum, bræður,
Um dagfars hegðun náúngans,
Drottinn, sem öllum dómi ræður,
Dóminn uppkveður vor og hans,
Vægir í dómi verum því,
Vægð svo að hljótum dómi í.
6. Virzt oss í dómi vægð að sýna,
Vegna þíns sonar, drottinn minn,
Afplána sekt og saurgun mína
Þú sálna æðsti brúðguminn,
Hið rètta' og góða eg gjöra vil,
Gef þú mèr náð og styrk þar til.

---

## 72. sálmur.

Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Dæmið Jesú dyggðum skrýdda
Dagleg sè oss skuggsjá hrein,

Er oss sýni ástum prýdda
Aðferð hans í hverri grein,
Við það, þegar vèlabrögð
Voru honum móti lögð,
Við það, þegar illskan arga
Ásókn honum veitti marga.
2. „Elskið þá, sem yður hata",
Oss þú kenndir, drottinn minn,
Stundið þeirra bót og bata,
Beinið veg til lífsins inn,
Drekkið hatri, heipt og synd,
Hjartans dýpst í ástarlind;
Fyrst að drottins náðar njótið,
Náð meðbræðrum sýna hljótið.
3. Eitt er ástar bandið, bræður,
Börn Guðs erum allir vèr,
Einn frelsari er sem ræður.
Allri farsæld þar og hèr;
Sama andans ástgjöf hrein,
Öll vor bætir sálar mein
Sama er náðin, sem vèr njótum,
Söm arfleifðin, er vèr hljótum.
4. Á þá óvild ást að spilla,
Ónýta svo drottins verk?
Á þá hatrið hjarta' að villa,
Hrífa líf í dauðans kverk?
A þá fjandinn fángaráð

Fá á oss, og geta náð?
Ó, að svona enginn vinni,
Að ófarsæld og glötun sinni.
5. Ó minn Jesú, ást þín hrífi
Oss, og hatri' rými' á braut,
Þínu svo að lifum lífi
Lífsins hver sem mætir þraut.
Veröld þegar villir oss,
Veit þín blóðug mynd á kross,
Ástardæmið æðsta skýri,
Illsku hjartans sífellt rýri.

---

## 73. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Umbuna þeim, oss ástúð veita,
Elska þá, sem oss kærleik tjá,
Blessa þá, sem oss bjargar leita,
Býta þeim, er oss gefið fá:
Það þykir heimi hegðan góð
Og hin rèttnefnda kærleiks slóð.
2. En þegar að vèr á hinn bóginn
Elska skulum þá hata oss,
Þeim, sem bölva og bera róginn
Blessunar óska veita koss,
Það þykir veröld heldur hörð

Heimtíng og ótæk sáttargjörð.
3. Þetta býður þó blíður drottinn,
Boð hans er vorra skyldna stofn,
Verkin og orð af vonzku sprottin
Varpast skulu í kærleiks ofn,
Að skerpi einmitt hita hans
Hugraun af glæpum náúngans.
4. Hann eigum vèr frá löstum leiða
Lipru kærleikans bandi með,
Sortann vonzkunnar sundurgreiða,
Svo að hann geti að sèr sèð.
Af illu æsist illskan mest,
En ástin sefar hana bezt.
5. Allir erum vèr breyskir, bræður,
Og biðja þurfum Guð um náð,
Verði því enginn oss svo skæður,
Að ekki geti sættum náð,
Já, veitum óvin kærleiks koss,
Kærleikans Guð svo býður oss.
6. Kærleikans Guð mig kærleik skreyttu,
Að kært þitt geti heitið barn,
Illsku hjartans í ástúð breyttu,
Að orðið geti eg friðargjarn,
En ávallt hati alla synd,
En aldrei þína rèttu mynd.

---

# 74. sálmur.

Lag: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Bræður, látum skærast skína
Skartið kærleiks lífi á,
Að það nái ávallt sýna
Uppruna sinn himnum frá,
Hvaðan eilíf ástin skær
Allri skepnu blessun ljær;
Allteins skulum öðrum veita
Ást, ef börn Guðs viljum heita.

2. Hugga skulum hrellda bræður,
Hjálp þeim veita kærleik með;
Ást til Guðs þess iðju ræður,
Er góðfúsast sýnir geð,
Aðstoðar með allri dáð
Alla, sem hann fær til náð;
Spyr ei heim nè hold til ráða,
Hjartað geymir kærleiks fjáða.

3. Hinn sem bróður býtir eigi
Björg, þá neyðin þrengir að,
Hugann ekki heldur sveigir
Hans að þörf nè bænastað;
Ei má heita ástargjarn,
Eða drottins sanna barn,
Sig hann undir satans merki
Sver í huga, orði, verki.

4. Ó þú lindin allra gæða,
Ástarríki faðir vor,
Þú, sem fylling gæzku gæða
Gefur oss við hvert eitt spor;
Veit oss bæði vilja' og mátt
Í verki' og orði sýna þrátt,
Að það unun æðstu metum,
Ef meðbræðrum hjálpað getum.

---

## 75. sálmur.

Lag: Guðs vors nú gæzku prísum.

Vor drottinn, vèr þig prísum,
Vèr lofum þína náð,
Ást þinni yfir lýsum,
Þitt eilíft hjálparráð
Kunngjört er öllum oss,
Hátt skal því raustin hljóma
Um herrans leyndardóma,
Og himneskt ástarhnoss.

2. Mikil var drottins mildi
Þá mönnum sendi Krist,
Hans einskær ástin vildi,
Að hlytum sælu vist;
Lofgjörð vor lýsi því,
Hvað eilíf ástin þoldi,

Iklædd mannlegu holdi,
Svo fanginn yrði frí.
3. Í sannleiks sælurìki
Samarfar erum vèr,
Frá sannleik sízt því víki
Sannkristinn maður hèr,
Ógn heims þó dynji á;
Veröld á bug hann vísi,
Votti og glaður prísi
Elskunnar undur há.
4. Þá tign vèr æðsta eigum,
Að heita lýður Guðs,
Krists limir kallast megum,
Kjörnir til alfögnuðs,
Skyldi oss þrjóta þor,
Gegn heimi' og holdi stríða,
Hæðni og forsmán líða
Vegna þín, drottinn vor?
5. Ó nei, minn drottinn dýri,
Með djörfung sálin mín
Heiminum hiklaust skýri
Háleitu verkin þín,
Þitt heilagt heiðri nafn;
Dýrð þína æ útbreiði,
Og bræðrum veginn greiði
Í himneskt sálnasafn.

---

## 76. sálmur.

Lag: Upp á fjallið Jesús vendi.

Himna faðir, hæsti drottinn,
Helgunar sem þróttinn lèr,
Þúsund margan þú sem vottinn
Þinnar hjálpar mönnum tèr,
Veit oss sigra vonzku sprottin
Vèlráð heims og ásóknir.
2. Aflið vort hið ofurveika
Einsamalt ei megnar bót,
Á oss veröld vill svo leika
Vèr ei fáum risið mót;
Holdi og svo hætt að skeika;
Hèr á ráð þú, drottinn, bót.
3. Veit að skírnar heilög höldum
Heitin, sem að unnum þèr,
Ást á Jesú æ margföldum,
Og hans stríðsmenn reynumst hèr,
Beitum trúar skygndum skjöldum,
Skelfíng heims þá að oss fer.
4. Heims þó lánið hjá oss gisti,
Hylli og auðlegð bjóði oss,
Samt af alhug sálu lysti,
Sælla lífs að eignast hnoss,
Og að þjóna einum Kristi,
Auðmjúklega bera' hans kross.

5. Lífs til enda lát oss stríða,
Lífs við enda sigur fá,
Lífsins hljóta hnossið fríða
Himni lífsins sönnum á,
Lífs við gleðjast ljósið blíða
Lífgjafanum sjálfum hjá.
6. Veit oss þetta, Guð minn góður,
Grátandi eg beiði þig,
Fyrir þinn son, vorn bezta bróður,
Bænheyr þú nú auman mig.
Eilífur þinn hljómi hróður,
Himnesk mildin föðurlig.

---

# 77. sálmur.

Lag: Rís upp, mín sál, að nýju nu.

Á þèr, drottinn, er allt vor traust,
Önd vor skal með gleðiraust
Því ávallt yfir lýsa,
Hún hversu á,
Í hryggð og þrá,
Hjálp þína ætíð vísa.
2. Hörmúnga þegar hörð er tíð,
Hryggðin og mæðan verður stríð,
Og bið á bótum meina;
Gleðji vort geð,

Guð er oss með,
Guð vill oss með því reyna.
3. Hann vill oss sýna heimsins rýrð,
Og heimsins skýra sæludýrð;
Öll sálar vill hann æfa
Í von og trú;
En vissan sú
Er vor hin æðsta gæfa.
4. Að vita Guð sèr vera hjá,
Vernd hans og miskun treysta á,
Vita hann gott allt gefa;
það lèttir oss
þjáníng og kross,
það eyðir hryggð og efa.
5. Meðan eg ráfa um dauðans dal,
Drottinn mitt athvarf vera skal,
Eg vil því engu kvíða,
Hans hönd mig ver,
Og hjálpar mèr,
Heiminum gegn að stríða.
6. þá hef eg aðstoð, unun, skjól,
Eilíf rèttlætis gleði sól
Mig frelsis geislum gleður;
Líkams við bönd
Mín losnuð önd
Lifir útvöldum meður.

---

# 78. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Lífsins hertogi, líknin manna,
Lausnari heimsins, Jesús minn,
Glæð i oss lífið lífsins sanna
Lífs fyrir æðsta kraptinn þinn,
Að holdsins bæði og heimsins sið
Hvervetna segjum skilið við.

2. Freistinga ofur mikla magnið
Mjög veikan stríðir kraptinn á,
Og hindrar sanna sálar gagnið,
Og sannleikanum leiðir frá;
Heimsins oss ótal hamla bönd
Til himins upp að lypta önd.

3. Armædd því sál af angri stynur,
Og æðra lífsins þráir fjör,
Fyrr en að líkamshreysið hrynur,
Þau háleit girnist sældar kjör,
Að lífið eilíft lifni' i sèr,
Lífið sem forsmekk himins ber.

4. Án þín, drottinn, vèr ekkert megnum,
Andlegt oss veit þú þrek og líf,
Að brjótast heimsins hættur gegnum,
Heimsins að sigra öfl og kíf,
Heimsins að slíta harðreirð bönd,

Og himins til að lypta önd.
5. Svo æðra lífið í oss búi,
Avallt fullkomnun taki það,
Í upphæð stefnu allri snúi
Og því himneska laðist að;
Lífsins himneska lífgist yl,
Unz lífsins herra flytjumst til.

---

## 79. sálmur.

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

Ó hversu ert þú aum, mannkind,
Yfir þèr þegar drottnar synd,
Og innra öllu ræður,
Þú hleður á þig sekt á sekt,
Selur þig ánauð holdsins frekt,
Þig heimur hrekur skæður;
Fyrirlitníng þú fær og smán,
Þèr fylgir eymd og gæfurán,
Gjörspillt þú hefur hjarta;
Vingan drottins þèr flýr burt frá,
Þú fær því ekki hans að sjá
Ástar ásjónu bjarta.
2. Æ lít þú á þinn eymdarhag,
Og þèr hagnýttu lífsins dag,
Blygðast þín, betrun ræktu;

Leita þú Jesú líknar hjá,
Lífsins dyr meðan opnar stá,
Á fund hans feginn sæktu;
Þèr hina æðstu unun kjós,
Að gleðjast við hans sannleiks ljós,
Og honum einum hlýða;
Lofgjörð, þakklæti' og lotning tjá
Lausnara þínum himnum á,
Sem bót þèr vann svo blíða.

---

## 80. sálmur.

Lag: Dauðans þúngu kraminn kvöl.

Eg em saklaus, segja menn,
Syndir þó þeir ótæpt fremji,
Þjóni holdi heldur en
Helgunar sèr dagfar temji,
Ödrum því að um þeir kenna,
Að þeir veginn glæpa renna.
2. Lesti fegra fýsir þá,
Fegurð þeirra svo vèr hrósum,
Svikablæju breiða á
Blómpentaða ynðisrósum;
Af því illa opt sèr hæla,
Og sig telja mikið sæla.

3. Ó þau svikin sálar verst,
Sem í glötun manninn leiða,
Afbatanir allra mest
Umflýjum, er dyggðum eyða.
Yfirsjónir auðmýkt játum,
Einnig þær af hjarta grátum.

4. Ó, minn drottinn, eg þig bið,
Í oss skapa hreinan vilja,
Að þann vörumst vonzku sið,
Vor afbrot að fegra' og dylja;
Þau svo fúsir þekkja kynnum,
Þeim af alhug bót á vinnum.

5. Faðir, vak í veikri sál,
Vaka lát þú hana' og biðja;
Vegferð lífs er völt og hál,
Virzt oss því í náð að styðja,
Gef hinn breyski brotum hafni,
Bænheyr það í Jesú nafni!

---

## 81. sálmur.

Lag: Kom, skapari heilagi andi.

Ó, hversu breyskir erum vèr,
Þó elskum gott af hjartans rót,
Holdsgirndin því að einatt er,
Oss að táldraga næsta skjót.

2. Vèr getum ekki varist því,
Þó viljann bezta höfum á,
Freistni og synd að falla í,
Farsæld og gleði leiðast frá.
3. Vèr sjáum þess og sannan vott,
Sem að postulinn forðum kvað:
Að eðli vort sè ekki gott,
Afl til hins rètta vantar það.
4. Eigum þá hèr að hætta við
Og holdi lausan gefa taum,
Örvænta bæði' um afl lið,
Aðhyllast heimsins lyst og glaum.
5. Ó nei, vèr eigum athvarf bezt,
Aldrei hugfallast látum þá,
Þóað oss heimur hrjái mest,
Heimsins lausnara sjálfum hjá.
6. Þeim, sem biður, hann þróttinn lèr,
Þeim, sem leitar, hann veitir ráð,
Fyrir hans aðstoð fáum vèr
Fullsigrað heim og ödlazt náð.
7. Ó Jesú, heyr þú hjartans mál:
Himneskur sannleiks geislinn þinn,
Streymandi gegnum sinni' og sál,
Sífellt vorn glæði skilnínginn.
8. Ó Jesú, heyr þú hjartans raust:
Himneskan lát þú anda þinn,
Leiðsögn oss veita lið og traust

Lífs um gjörvalla ferilinn.
9. Ó Jesú heyr þú hjartans bæn:
Himneskan fyrir kraptinn þinn,
Veit að eg verði greinin græn,
Gróðursett á þig, drottinn minn.

---

## 82. sálmur.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

Ó Jesú, trú á æðstan þig
Eg skal með djörfung játa,
Hèr frá skal ekkert hræða mig,
Nè hindra' í nokkurn máta;
Öll hugsan, athöfn, tal,
Ávallt það votta skal,
Lífs í lystíng og neyð,
Líka í sjálfum deyð,
Eg skal ei af því láta.
2. Hvar skulum leita hælis vèr,
Herra, ef af þèr sleppum?
Hvar þá vor heill og huggun er,
Og hnoss, sem eptir keppum?
Hvað megna mekt og völd,
Mergð fjár og vina fjöld?
Alls ekkert, ekkert skjól

Eigum nè gleði sól;
Ófarsæld eina hreppum.
3. Eg skal meðkenna æðstan þig;
Endurlausnarinn blíði,
Auman meðkenn þú einnig mig,
Eg þá verð lífs úr stríði
Fluttur fyrir þinn dóm,
Fagnaðar gleð mig hljóm:
Kom blíði bróðir minn,
Beztan hljót fögnuðinn
Ásamt útvöldum lýði.

---

## 83. sálmur.

Lag: Hver sem að reisir hæga bygg𝔡.

Hvað er sem lyptir huga manns
Til himins fjöri gæddum?
Sýnir oss Guð í gjörðum hans
Gefur þrek veikum, hræddum?
Hvað lèttir undir hverja þraut
Og hina sönnu vísar braut
Veslum, veikum og mæddum?
2. Hvað sættir mann við sèrhver kjör,
Sanna von hjartans glæðir,
Eflir í honum andlegt fjör

Og lífi kærleiks gæðir? —
Ó það er trúin ein á hann
Alls herjar drottinn þríeinan,
Og það sem um hún fræðir.
3. Þú, hinn gálausi, gæt að því,
Hvað gjörir trú menn sæla,
Vantrú, hræsni og villu flý,
Þær vèla menn og tæla.
Yfir þeim vofir ógn og smán,
Eilíf glötun og sælurán,
Sem móti trúnni mæla.
4. Öll Guðs þíns föður ástar verk
Í útbreiðslu trúar skoða,
Ó, hvað þau eru mörg og merk
Mildi og sælu boða;
Lít þú á hèrvist lausnarans,
Lít þú á þjóna' og kirkju hans
Dreyrrauðan dýrðarroða.
5. Ó maður, getur efazt þú?
Ó nei, þú trúa hlýtur,
Iðka nú þegar trausta trú,
Trú mèr, Guðs biðlund þrýtur,
Ef hans forsmáir ástar ráð
Og að því gjörir skimp og háð
Og hans náð af þèr brýtur.

---

# 84. sálmur.

Lag: Lofið Guð, lofi hann o. s. frv.

Lofið Guð,
Lofgjörð hans hljómi skær,
Lofi Guð
Lífið allt fjær og nær;
Drottni allt til dýrðar gjör,
Dýrkeypti maður,
Æfi meðan endist fjör,
Í hryggð sem glaður;
Skylt er þèr,
Skaparann prísa,
Líf þitt hèr
Láta auglýsa
Dásemder
Drottins alvísa;
Mæl af hjartans hreinni rót:
|: Allt hvað hefur andardrátt
Einn Guð vegsami. :|
2. Morgn' og kvöld,
Mikla náð skaparans
Þúsundföld
Því náðin einskær hans
Yfir þèr er ætíð ný,
Ástin þín hreina
Lífinu sèr lýsi í

Á lífs herrann eina;
Hann þèr ann,
Hans í trú leita,
Bið þú hann
Blessa þinn sveita,
Sinn andann
Sífellt þèr veita,
Og sitt ríkið efla hèr,
|: Allt svo lífið einum hljóm
Einn Guð vegsami. :|
3. Hygg þú að,
Hvernig Guðs stjórnan er,
Lát þú það
Leiðbeina sjálfum þèr,
Gleði' að þekkja' og gæzku þá,
Er Guð veitir sínum,
Óguðlegra eins að sjá
Eymd, hrellíng pínu.
Lát þá náð,
Líkn, kærleiks vottinn,
Er þèr tjáð,
Einn hefur drottinn
Áform, ráð,
Af kærleik sprottin,
Glæða' og hvetja gjörvöll þín,
|: Að vegsama ár og síð
Einn Guð og herra. :|

# 85. sálmur.

Lag: Faðir á himna hæð.

Jesús vor ávann oss.
Upphefðar dýrsta hnoss:
Sèr að íklæðast einum
Í trú og kærleik hreinum.
2. Helgaðir himinlyst
Hlutum vèr allra fyrst
Í skírn þann skrúðann mæta,
Skylt er oss þess að gæta.
3. Gjörla þá Guði' á hönd
Gengum með lífi' og önd,
Neituðum öllu illu,
Athæfi þess og villu.
4. Þau heit ei hèldum vèr,
Helgunarskrúðinn er
Ataður ótal syndum
Af holdsins vilja blindum.
5. Orð drottins oss bauð þá,
Illu að snúa frá,
Útrýma því og eyða
Og gamla manninn deyða.
6. Að rísi annar nýr,
Andlegur, helgur, dýr,
Anda Krists ímynd klæddur
Og hans lífs krapti gæddur:

7. Dyggðanna skrúðinn skær
Skreyti hann mjög frábær,
Og hann alls hugar lysti,
Einum að þjóna Kristi.
8. Ef þetta öðlumst vèr,
Erum vèr, Jesú, þèr
Íklæddir, ó þann sóma
Og æðstan tignar blóma.
9. Tign mín hin æðsta er
Einum sameinast þèr
Og þínu frelsis flóði
Fágast, lausnarinn góði.
10. Leyf mèr að lifa' í þèr,
Lif þú sjálfur í mèr;
Íklæð þú öndu mína
Í andans líking þína.
11. Á minni frelstu önd
Öll við líkamans bönd
Dýra lát, drottinn, skína
Dýrðar líkingu þína.

---

## 86. sálmur.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

Heilagur himna faðir
Helgunar gaf oss náð,

Bezt sem hans börn helgaðir
Betra skulum vort ráð;
Helzt þó á hvíldardegi
Helga oss drottni ber
Og á hans orða vegi
Efla lífs framfarer.
2. Hvern drottins daginn eigum,
Drottni að helga sál;
Misbrúka hann ei megum,
Þó margbreytt ginni' oss tál;
Orði Guðs ávallt hlýða
Unun vors hjarta sè,
Góðverk og gæzku blíða
Góðfúsir láta' í tè,
3. Guðs skulum glaðir leita
Guðs húsi sjálfu í;
Hjartans guðræknin heita
Hvert skipti sè þar ný,
Iðrun og apturhvarfið,
Áformin helg og væn,
Vort sálar sè þar starfið,
Sameinað hjartans bæn:
4. Himneski Guð og herra,
Oss helga þenna dag;
Þína náð lát ei þverra;
Þitt orð vorn betri hag;
Hreint í oss skapa hjarta,

Heyr oss, vor faðir kær,
Svo lífs um leið síbjarta
þèr leiðumst ávallt nær.

---

## 87. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Ó þú elskunnar æðsti kraptur,
Oss sem að fyrir leiðst og dóst,
Veit að vèr þig svo elskum aptur,
Að það hvervetna vottum ljóst,
Og deyjum með þèr, ó Jesú,
Ástbundnir þèr í sannri trú.
2. Veit að hið illa innra deyðum,
Yfir oss svo ei fái ráð,
Heimsvild og girndum holdsins eyðum,
Helgunar girnumst æðstu náð,
Daglega svo ef deyjum vèr,
Deyjum vèr, Jesús minn, með þèr.
3. Dapur þegar oss dauði kallar,
Djarflega honum göngum mót;
Kærleiks með óskum kveðjum alla,
Kærleikans sýnum verk og hót;
Ástvina felum efni' og ráð
Á Guðs forsjónar vernd og náð.
4. Þolgóðir stríðið hinnsta heyjum,

Til himins gjörvöll stefni sál,
Í Jesú nafni útaf deyjum,
Andvörpin hjartans votti mál:
Drottinn, meðtak þú mína önd
Í mildiríka þína hönd.
5. Þegar vèr slíkum dauða deyjum,
Deyjum vèr með þèr, Jesú minn,
Lífið í dauðans dvala eygjum,
Dýrðar leiðumst í fögnuð inn,
Þar sem að lífsins sanna sól
Síljómar frá Guðs tignarstól.

---

## 88. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Dýrð sú veglegust allra er,
Er Jesús kenndi' að þekkja mèr;
Tign heims, ágæti, gleði' og glys,
Gjörvallt tel eg sem annað fis,
Í samlíking við sjóndýrð þá,
Sem að eg gleðst við himnum á.
2. Þessum sannnefnda sælustað
Sálin mín fús vill keppa að,
Daglega heimi deyja frá,
Dálæti hans ei treysta á;

Sanna því girnist sæld og auð,
Sem að veröldin er af snauð.
3. Ó Jesú, vak í öndu mèr,
Önd mín svo þrái vist með þèr,
Vist heims mèr þá ei verður kær,
Vil eg þèr, Jesú, flytjast nær;
Heimur fær ekki fullnægt mèr,
Fallvölt hans gjörvöll dýrðin er.
4. Kem eg, Jesú, með krossinn minn
Krossin blessaða undir þinn,
Eymdar og syndar angurs flóð
Alskært þitt stillir friðar blóð;
Þar vil eg deyja veröld frá,
Von og traustið þèr byggja á.
5. Þar vil eg hrópa' af hjarta' á þig,
Herra, sem þjáðist fyrir mig,
Ó Jesú, Jesú, minnst þú mín,
Mig leið þú heim í dýrð til þín;
Himneski blíði bróðir minn
Bænheyrslu veit mèr andsvörin.

---

## 89. sálmur.

Lag: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Brigðlyndi heimsins hyggjum að,
Hugfestum jafnframt ráðið það,

Ei honum unna dátt;
Öll hans lystíng eyðist brátt,
Opt hann skortir viljann og mátt.
2. Naktir fæddumst í fyrstu vèr,
Fèð heldur enginn með sèr ber,
Hinnst þegar hèðan gár;
Vesall bæði og valda hár
Verður dupt, þá hnígur hann nár.
3. Stær þig því, maður, engu af,
Með auðmýkt þakka drottni', er gaf
Allt það, sem eignast hèr,
Dýrð og heiður honum ber,
Hjartans blygðun einúngis þèr.
4. Dramblátra heptir drottinn ráð,
En dug hins bljúga veitir náð,
Hinn betra kostinn kjós:
Guðs náð sè þitt gnægsta hrós,
Gleð þú þig við hans orða ljós.
5. Það ljósið sýnir sælla líf,
Sanna velferð við endað kíf,
Eilífð, sem aldrei þver,
Óðal, sem þar eigum vèr,
Aðsetur, hvar drottinn vor er.
6. Burt hroki, dramb og heimsins ráð,
Míns herra vil eg eignast náð,
Hlutskipti hún sè mitt;

Barnið mun hann blessa sitt,
Af böli' og eymdum gjöra það kvitt.

---

## 90. sálmur.

Lag: Herra, þèr skal
Heiður og lotning færa.

Hvað er lífið?
Hverfull jarðar blómi,
Heilsa, kífið,
Bólu líkt og hjómi,
Stundar kæti,
Stutt ágæti,
Stríð, ólæti,
Synd, er sætir dómi.
2. Veröld illa
Vèlar opt og tælir,
Vill oss spilla,
Gott því burtu fælir;
Hennar glaumi,
Girnda taumi,
Gleði straumi,
Arfinn aumi hælir.
3. Dauðinn lífi
Avallt vofir yfir,

Engu hlífir,
Hèr á jörð sem lifir;
Ekkert leyni
Er að reyna
Undan meini
Opt í einu svifi.
4. Gæt þín, maður,
Girndum illu hafna,
Góðverk hraður
Lát þú ávallt dafna;
Ótti dauða
Eykur nauð
Þeim er mjög trauður
Æðri auð að safna.
5. Vesli maður,
Veröld þó þig beygi,
Vert þú glaður,
Hræðstu dauðann eigi,
Gleði kanna
Gefst þèr sanna
Guðs í ranni,
Ef þú annt hans vegi.
6. Veit oss, faðir,
Vits og krapta njóta,
Að vinnum glaðir
Allt til sannra bóta;
Lífs á degi

Lof þèr segja',
Að lèzt þú eigi
Mildi megin þrjóta.

---

## 91. sálmur.

Lag: Guðsson kallar: komið til mín.

Ó þú hins hæsta einkason,
Eilífs lífs sem að gafst oss von,
Yfir þèr allt hold fagni;
Unaðs og sælu ertu rót,
Angurs og meina sönnust bót;
Þín lofgjörð aldrei þagni!
2. Á þèr lífs fursti, ó Jesú,
Ódauðlegleikans byggjum trú,
Orð þín oss bregðast eigi,
Eins og þú lifir lifum vèr,
Lifum í dýrð með sjálfum þèr,
Hèr þó að hold vort deyi.
3. Þessi trúin oss ávallt er
Aðal-hugsvölun, þegar vèr
Af þessu þreytumst lífi,
Hún linar eymd en lèttir kross,
Lætur oss finna sæluhnoss
Í döpru dauðans kífi.

4. Hún bendir oss á bústað þinn
Við blundinn hinnsta, Jesús minn,
Vist hvar þú bjóst oss vísa
Og hvar vèr skulum þjóna þèr
Í þeirri dýrð, sem engum hèr
Unnt er með orðum lýsa.
5. Lífsins hertogi, lof sè þèr,
Lífs eilífs von að gafst þú mèr,
Mig dauði' ei megnar hræða.
Gleði og unun guðdómlig
Gagntekur sál, nær hugsa' um þig
Algjörða líf upphæða.

---

## 92. sálmur.

Lag: Heiðrum vèr Guð af hug og sál.

Sannleikans ljóma sólin skær
Sendi út geisla nær og fjær,
Eptir það kom í heiminn hann,
Sem heims er líf og upprisan,
Við þenna ljómann lítum vèr,
Að lífið eilíft eptir fer,
Þegar hèrvistin þrotin er.
2. Hann sýnir oss og samband það,
Sem að eigi sèr vissan stað
Milli þess lífs, sem lifum hèr,

Og lífsins hins, sem eptir fer;
Guðhræddir öðlast gleði því
Guðs ríkis öðru lífi í;
En glötun hreppa glæpa þý.
3. Sannleikans ljósið lífs um stig
Leiði því, maður, ávallt þig;
Uppfræðíngar þèr er ei þörf
Annarar við þín skyldustörf;
Guð efnir það, sem orðin hans,
Og óspillt fylgsni hjartaranns,
Syndugu kenna kyni manns.
4. Um eilífð mun oss angra það,
Ef vèr í þessum reynslu stað,
Boðum drottins ei gáfum gaum,
Gjálífis fleygðum oss í straum.
Tökum því vort í tíma ráð,
Í trúnni höndlum drottins náð,
Að sál vor verði' ei synd að bráð.
5. Þitt sannleiks orðið, ó Jesú,
Uppfræði' og styrki mína trú,
Svo vísi' hún öllum vafa' á braut,
Varpi mèr á þitt náðarskaut;
Þar er mèr æðsta vegsemd vís,
Og veitist það, sem helzt eg kýs,
Drottni að sýngja dýrð og prís.

## 93. sálmur.

Lag: Allt eins og blómstrið eina.

Hvað helzt hræðist þú, maður,
Hver er þess undirrót,
Að þú ei getur glaður
Gengið dauðanum mót?
Hvort missir vina' og valda
Og velsælda lífi í,
Eða hönd helju kalda,
Hèðan þá tekst frá því?
2. Hræðst ei þó hljótir skilja
Hjartkæra ástmenn við,
Því Guðs að góðum vilja,
Glöggt eptir stundarbið,
Þeir fá þig fundið aptur,
Flýgur til himna önd,
Er drottins æðsti kraptur
Áður tók sína' í hönd.
3. Sönn verður sælustundin,
Þá sèr þú þína' á ný,
Frelsarans ástar fundinn
Fær þú og jafnframt því
Og Guðs þíns gæzku' að reyna;
Gleðin er sælurík
Án enda' og allra meina,
Og engin henni lík.

4. Hvað er auður hjá auði
Arfleifðar himneskrar?
Heims lyst, hègóminn snauði,
Hjá alsæld Guðs dýrðar?
Ánauð, hjá frelsi fríðu?
Fjörtjón, hjá lífi' og ró?
Hryggð, þraut, hjá himinblíðu?
Hrellíng, hjá yndi' og fró?
5. Óttast því dauðann eigi,
Þinn ástvin met þú hann,
Þó á þjáninga vegi
Þig leiði burt hèðan;
Löng er ei leiðin stranga,
Ljómar brátt gleði sól,
Þá fullsæl færð' að ganga
Fyrir Guðs náðarstól.

---

# 94. sálmur.

Lag: Allt eins og blómstrið eina.

Ókvíðin önd mín sèrtu,
Óttast ei Guðs þíns dóm,
Vonar- og trúgóð vertu,
Vinar því heyrir róm;
Þinn bróðir, þinn talsmaður,
Þèr sem að heitast ann,

Dóminn dæmir blessaður,
Dómsvægð þèr sýnir hann.
2. Þig fordæmt fær sá eigi,
Sem frelsi keypti þèr,
Ef þig í auðmýkt beygir
Undir hans vilja hèr,
Í trúnni á hann byggja
Alla vilt hjálp og náð,
Þá þarft þú ekki' að yggja
Hans eilíft hjálparráð.
3. Hvað svo sem heimur mælir
Hatandi dauðans bönd,
Samt eru allir sælir,
Sem komast Guðs í hönd.
Dáinn til lífs er liðinn,
Lifð' hann í trúnni hèr;
Farsæld og himnafriðinn
Fyrir Krist öðlumst vèr.
4. Þó lögmál hegníng hóti
Hrellíngu, kvöl og neyð,
Lausnarinn leggur á móti
Líf sitt og beiskan deyð;
Sú friðarfórnin blíða
Friðþægíng mèr ávann,
Eg vil því engu kvíða
Einúngis trúa' á hann.
5. Eg fell því þèr til fóta,

Frelsari', í trúnni hèr,
Lát þú mig náðar njóta
Náðþurfa líkna mèr;
Bæn þá vil bljúgur þreyta
Bezt við þig, drottinn minn,
Unz þú mèr virðist veita
Vegsemdar bústað þinn.

---

## 95. sálmur.

Lag: Hver veit hvað fjærr' er æfi endi.

Eg vil veraldar auði hafna,
Sem yfrið stopull jafnan er,
En þeim himneska' af alhug safna,
Sem aldrei getur brugðizt mèr;
Þá fæ eg sæll við sízta blund
Sáluhjálplega dauðastund.

2. Á heims tign engar hef eg mætur,
Hún hverfur skjótt, sem jarðarblóm;
En þeim heiðri eg gef að gætur
Guðs míns að hljóta náðardóm;
Eg fæ þá sæll við síðsta blund.
Sáluhjálplega dauðastund.

3. Þegar að dauðans kallið kemur,
Kæra ástvini skil eg við,
Huggar mig ekkert hreldan fremur

Heldur enn trúar andvarpið:
Send mèr drottinn, við sízta blund
Sáluhjálplega dauðastund.
4. Þá kem eg til þín, Guð minn góði,
Gleðin míns lífs og verndarinn,
Til þín Jesú, minn bezti bróðir,
Blessaði sálna unnustinn,
Og til Guðs anda', er anda minn
Andlega leiddi ferilinn.
5. Og þá fæ eg þá fundið aptur
Frá mèr sem tókst þú, drottinn minn,
Ástar þinnar þá annast kraptur,
Ó, þann himneska fögnuðinn.
Send mèr, drottinn, við sízta blund
Sáluhjálplega dauðastund.
6. Og hinir, sem eg eptir skildi,
Á síðan koma þar til mín,
Ó hvílík er þín ást og mildi,
Eilífi Guð, við börnin þín.
Send mèr, drottinn, við sízta blund
Sáluhjálplega dauðastund.
7. Sem auðsveipt barn þitt, ó minn herra,
Eg reyna vil að hlýðnast þèr,
Og láta trúna eigi þverra
Alla þá stund, sem dvel eg hèr,
Svo eg fái við sízta blund

Sáluhjálplega dauðastund.
8. Miskunar þitt nú opna eyra
Ó Guð, og heyr þú kvakið mitt;
Fyrir þíns sonar dýra dreyra
Dýrðar veit þú mèr ríkið þitt,
Sætan eptir hinn sízta blund,
Og sæla mína dauðastund.

---

## 96. sálmur.

Lag: Um dauðann gef þú, drottinn, mèr.

Dauðlegi maður, dauða þinn
Daglega haf í minni,
Því óðum líður lífstíðin
Og leið að grafarkynni;
Að getur dauðans borið blund
Brátt, og jafnvel á hverri stund,
En eflaust einu sinni.
2. Dauðinn þig flytur drottins til,
Drottinn þá af þèr krefur,
Á gjörðum lífs að gjöra skil,
Guðs dómur ekki tefur;
Atkvæði dóms þess óttast þú,
Ef hèr vanrækir sanna trú,
Og vært í syndum sefur.
3. Afbrota þinna iðrast því,

Yfirbót sanna gjörðu,
Lífinu trúar lif þú í
Lífs meðan ert á jörðu;
Eilífa fá þeir allir dýrð,
Ei sem verður með túngu skýrð,
Er æfi vel svo vörðu.
4. Ó Guð, þegar mín andláts stund
Aðber að vilja þínum,
Veit mèr þá hægan hinnsta blund,
Og hlífð við sárum pínum;
Þolinmæði, ef þraut mig sker;
Þinn friðinn einkum veit þú mèr;
Misgjörðum gleym þú mínum.
5. Í upphæð hafin öndin mín,
Af fáguð lambsins blóði,
Útvöldum með og englum skín,
Unn henni, drottinn góði,
Að hún himneskri engilrödd,
Af elsku þinni sann til kvödd
Um eilífd lof þèr ljóði.

---

## 97. sálmur.

Lag: Jesú Kristi, þig kalla' eg á.

Oss hefur Jesús endurleyst,
Og arfleifð himins búið,

Fallið mannkyn á fætur reist,
Frávilltum til Guðs snúið.
Hann vor dómari einnig er,
Að því vandlega gætum,
Og oss innrætum,
Eptir hverju hann einkum fer
Í sínum dómi mætum.
2. Þar hjálpar oss ei hræsnin tóm
Hègómatal nè læti,
Heldur guðræknis hegðan fróm,
Og hjartans rètt ágæti;
Höfundur kærleiks krefst af oss
Kærleiks í anda hreinum,
Í öllum greinum,
Og að bróðernis blíðu koss
Bjóðum hverjum og einum.
3. Oss ber að helga allt vor líf,
Iðkunum kærleiks sönnum;
Vera nauðstaddra hjálp og hlíf;
Hreldum liðsinna mönnum;
Efla með bræðra allra gagn;
Atorku' í trúnni sýna,
Er ei má dvína,
Þó að andstreymis megin magn
Mótstöðu veiti sína.
4. Ó, hversu blíður herrann er,
Til heitrar ástar hvetur;

Góðverkin öll, sem unnum vèr,
Unnin sèr því hann metur;
Vegsemd það er hin æðsta oss,
Ávarp hans blítt að hljóta,
Og náðar njóta,
Margfalt æðri, en heimsins hnoss,
Hver eð bráðlega þrjóta.

---

## 98. sálmur.

Lag: Sólin upprunnin er.

Ó drottinn, allir vèr
Eigum að deyja;
En sú stund óviss er,
Nær eigum heyja
Hið hinnsta stríð;
Hjálp oss því öllu fremur,
Að líf svo vöndum vel,
Velkomið oss sè hel,
Þá kallið kemur.

2. Úngmenni' ei ætla þèr,
Elli að bíða,
Hratt líf þitt horfið er
Við helsótt stríða;
Margt æsku blóm
Uppvisnar fyrr en varir,

Ekki það átt þú víst,
Að iðrast, nær þèr lízt
Fyrr en burt farir.
3. Svo sem að sáum hèr,
Síðar uppskerum,
Í anda' ef gjört það er,
Úr býtum berum
Eilífa dýrð;
Í holdi' ef niður sáum,
Ófarsæld af því rís,
Um eilífð sem er vís,
Náð Guðs ei náum.
4. Hver maður hyggi að,
Og hafi' í minni:
Varúðar vert sè það
Víst í hvert sinni,
Að slá á frest
Umbót til dauðastundar,
Óhentugt opt er þá
Undirbúníngi' að ná
Til friðarfundar.
5. Þá dauðans dimma nótt
Dregst yfir lífið,
Víst mun ei verða rótt
Við heljar kífið,
Að skrýða önd
Í skrúðann brúðkaups mæta;

Bezt mun að þá sè bjart,
Nær búumst í það skart;
Þess gjörum gæta.
6. Fyrr en lífs dagur dvín
Til drottins snúumst,
Ljós þess þá skærast skín
Skrúða þeim búumst,
Blíðheimi í
Bezt sem að tilhlýði;
Blóm dyggða: ástin blíð,
Björt von og trúin fríð,
Oss skarti skrýði.

---

# 99. sálmur.

Lag: Heiðrum vèr Guð af hug og sál.

Ei skulum dauðann óttast vèr,
Inngangur lífsins því hann er;
Þá, sem af alhug elska Krist,
Alla flytur í sæluvist;
Í trúnni það sem sjáum hèr,
Í sjóndýrð skærri birtast fer,
Til Krists þá sælir komum vèr.
2. Ávinníng dauðann eg tel minn,
Er mig flytur í himininn,
Til drottins og hans dýrðar hags,

Og dýrðlegs anda samfèlags.
Öndin sár þráir ávallt mín,
Að komast, drottinn minn til þín,
Hèr þá mæðist af hryggð og pín.
3. Hvílir öruggur hugur minn
Við herrans blíðu loforðin;
Í trú undrandi' eg tilbið þann,
Trúfesti hvers ei bregðast kann,
Í, trú ó drottinn, treysti eg þèr,
Trúin mín þig í upphæð sèr,
Útvöldum býta blessun mèr.
4. Þegar eg hnegi höfuðið
Við hinnsta lífs míns andvarpið,
Og fel þèr, blíði faðirinn,
Farandi hèðan anda minn,
Lèttfæra öndin lyptir sèr
Leiðbeind af anda fögrum her
Þangað, sem dýrð þín drottinn er.

---

## 100. sálmur.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Ráðsmenn Guðs erum allir vèr
Yfir því, sem hann lèði' oss hèr;
Oss ber því gjöra' á öllu skil,
A meðan tími veitist til,

Svo regla verði rèttust á,
Ráðsmennsku þegar köllumst frá.
2. Vandræðum einatt veldur það,
Ef vèr ei þessu gætum að;
Öðrum er búið efnarán,
Oss í gröfinni mesta smán,
Ástvinum sorg og allmörg raun.
Athugaleysis skoðum laun!
3. Ráðstöfun húss vors einkum er
Aðalskylda, ef höfum vèr
Til þess umsvifa eina stund,
Áður en læsumst dauðans mund;
Ástvini vora eigum því,
Umsjá vinanna fela í.
4. Frelsari vor, sem fyrir oss
Fæddist, lifði og dó á kross,
Hefur einnig þá skyldu skýrt,
Skoðum hans dæmið ástardýrt,
Ástkæra móðir er hann fól
Ástvinar síns í vernd og skjól.
5. Ráðstöfun þegar allri er
Aflokið, svo sem vera ber,
Hugann gjörvallan hnegjum þá
Heimsins störfunum öllum frá;
Til drottins hefjum hjartans mál,
Hans miskun felum vora sál.
6. Lífsins þá störfum lokið hef,

Lausnari blíði, krapt mèr gef,
Huganum snúa heimi frá,
Himninum festa sjónir á,
Bíðandi' í trúnni biðja þig,
Burt þar til dauðinn kallar mig.

---

## 101. sálmur.

Lag: Greinir Jesús um græna trèð.

Dauðinn ákveðinn öllum er,
Opt þá sízt varir hann að ber;
Hann þóað brátt mjög beri að
Böli má oss ei valda það.
2. Hann, sem að allt vort annast ráð,
Almætti, gæzka, speki, náð,
Allteins faðernis ástin skín
Í því, nær kallar börnin sín.
3. Sè eg, minn Jesú, sannkristinn,
Sífellt ástundi vilja þinn,
Bráðan ei dauða hræðist hót,
Af hjartans innstu segi rót:
4. Hvenær sem dauðinn kemur að,
Í hverri mynd sem verður það,
Fagnandi burt hann flytur önd
Frelsara míns í náðarhönd.
5. Fyrir hans blessað friðarmál

Frelsi Guðs barna öðlast sál,
Hann vandar ekki' um veikleikann,
Ef viljann finnur einlægan.
6. Vil eg, minn Jesú, vera þinn,
Vert þú mín sól og hjálparinn;
Lát þú önd mína lifa' í þèr,
Lif þú sjálfur í brjósti mèr.
7. Allir samhuga elskum Krist,
Oss sem tilreiðir sæluvist;
Vökum, biðjum, ei vitum nær
Vofeifleg dauðans sigð oss slær.

---

## 102. sálmur.

Lag: Allt eins og blómstrið eina.

Sorgmædda sál, er grætur
Sofnaðan ástvin þinn,
Hygg að, hve herrann mætur
Harmi bjó lèttirinn;
Lífs orða ljós hans sanna,
Ljómandi harmasól,
Harmdöprum hjörtum manna
Himinlífs birtu ól.
2. Sá lífsins ljóminn boðar
Lifendra samfèlag,
Sálin þar sèr og skoðar

Samvista yndishag,
þá lífsins ljúfi herra
Leiðir í fögnuð sinn,
þann, er mun aldrei þverra,
þreyjandi ástvininn.
3. Unun sú kann ei innast,
Orð geta' ei skýrt frá því,
Sælar þá sálir finnast
Sambúð himneskri í.
Hugboðið hjartans varma
Hjá oss þá gleði ól,
Að á jörð að eins bjarma
Eygjum af kærleiks sól.
4. Eilífi ástar kraptur,
Sem ásta skaptir bönd,
þú slítur ei þau aptur,
Er þín stofnaði hönd.
Ástin mun aldrei rofna,
Eg treysti, drottinn, því,
Og sálin aldrei sofna
Svefnhöfga dauðans í.
5. Eg vil þolgóður þreyja,
þinn vilja stunda' og ráð;
Fús hèðan fara' og deyja,
Fullviss um þína náð:
þó hold í hauðri liggi
Himneskri samvist í

Ástfangin önd mín tryggi
Ástaböndin á ný.
6. Sískærust ástarsunna
Síverma mun oss þar,
Sístreymi sælubrunna
Sönn lind mun ununar;
Síblómi' sálna' ei dvína
Sífelldan lífsins dag;
Síljómi lambsins skína,
Þá leikur allt í hag.

## 103. sálmur.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Hèr má skilnaðar heita landið,
Þá hèðan vina kallast önd,
Slitnar þá alveg ástarbandið,
Öflugri lostið dauðans hönd?
Ef að svo væri, eilífð kann
Aldrei að bæta skaða þann.
2. Samfunda' í upphæð eigum landið,
Aptur vinirnir finnast þar
Ástinni vinnur ekki grandið
Áhrif dauða nè skilnaðar;
Endurminningin angurblíð
Alla hèr varir lífsins tíð.

3. En þegar sálir sálum fagna
Sælunnar upp í dýrðarstað,
Þá mun víst ástin ástir magna,
Ó hvílík sæla verður það,
Ástvina fundi aptur ná,
Um eilífð þeim að vera hjá.
4. Þar dregur ský frá sannleiks sólu,
Sem hana tíðum myrkva vann,
Þeir, sem hèr fyrrum óvild ólu?
Alskíran þekkja sannleikann;
Ástalíf hèr sem datt í dá
Dýrðlega endurlifnar þá.
5. Dásamligstum í drottins ljóma,
Dýrðar berandi æðstu hnoss,
Jesúm lítum, og látum hljóma
Lofgjörðarsöng þeim frelsti oss.
Aflvana hnígur hugurinn,
Þá himins grundar samfundinn.
6. Stórmerki drottins sig hvar sýna,
Í sönnum ljóma eilífðar;
Útvaldir þar og englar skína,
Umvafðir blóma sælunnar,
Og grandið ekkert gleði fól,
Því Guð er alskær náðarsól.
7. Son Guðs einneginn sjá tilreiða
Sínum játendum bústaðinn,
Og ávallt nýja' og nýja leiða

Í náðarríkis fögnuðinn;
Loks í sælunnar samastað
Samfagna' að allt sè fullkomnað.
8. Upp til þess staðar ávallt mænir,
Öndin þreyjandi dupti háð,
Og hjartans flytur bljúgar bænir:
Blíði Jesú, af þinni náð
Breyt þú nú mínum hryggðarhag
Í himneskt gleði samfèlag.
9. Sárþráir önd að fá þig finna,
Fagnandi þèr að vera hjá,
Í flokkinn vina flytjast sinna
Fullsælu landi sönnu á,
Hvar samansöfnuð sýngur hjörð
Sínum lausnara þakkargjörð.

---

## 104. sálmur.

Lag: Heimsins stýrir forsjón fasta.

Ó, tilveru æðsta hnossið,
Unaðslindin, kæra líf,
Geislar lífsins glæðist, blossið,
Gleðisöngur andann hríf,
Lífsins herra að lofa þann,
Lífs sem sanna' er uppsprettan,

Og sem lífs um alla geyma
Öflin lífsins lætur streyma.
2. Lífið þó að linna sýnist,
Lostið dauðans bitru sigð,
Ei þess fjör nè orka týnist,
Upp það rís í lífsins byggð;
Allt, sem dauði' og eyðíng fól
Alskær glæðir lífsins sól;
Líf skal sönnum sigri hrósa,
Sèrhvað lífs þann fögnuð kjósa.
3. Ó hve munt þú yndisfagur
Árgeislanum skjótandi,
Lífsins sanna sigurdagur
Sèrhvern myrkva brjótandi;
Sælu' og frið þú andar á
Eymdir þær, sem lífið þjá,
Fjúka þær sem fisið lètta,
Friðsól blómin aptur spretta.
4. Þú ert fagur friðar dagur,
Frelsuð skepnan leikur sèr;
Æðsti hefst þá unaðshagur,
Eymd og dauði horfinn er;
Ó, þann lífsins unaðsfund,
Ó, þá lífsins sælustund,
Þá mun minníng þjáninganna
Þúsundfalda gleði sanna.
5. Synd og dauða seldi maður,

Send þú þangað anda þinn,
Vert þú hress, í hryggðum glaður,
Hraður lífs er straumurinn,
Almáttuga ástin dýr
Allt þèr bezt í haginn býr;
Vegir hennar eru einir
Alfullkomnar vizkugreinir.
6. Lofum föður lífsins sanna
Lífsins fyrir náðargjöf,
Lofi' hann gjörvallt lífið manna,
Líf á meðan á hèr töf;
Lofi hann vort líf og fjör
Lífsins fyrir margbreytt kjör;
Lífs vèr æðstu lofgjörð tjáum,
Líf til fulls þá skilið fáum.

---

## 105. sálmur.

Lag: Gleð þig, Guðs sonar brúð.

Eg trúi, ó drottinn,
Er það mín huggunin,
Líkams þó lífið þrotni,
Og lík í jörðu rotni,
Að þinn almættis kraptur
Úr gröf mig reisi aptur.
2. Veraldar vísindin

Villa' ekki huga minn,
Þá líkams lífs sè þrotið
Lífs fái' eg ekki notið,
Það hverfi, eins og alda,
Í æginn lífs margfalda.
3. Nei, það er einmitt eg,
Sem alls holds þræddi veg,
Dýrðlega' er drottinn leysir,
Úr dupti endurreisir;
Mynd Guðs því getur eigi
Gleymzt nè týnzt lífs af vegi.
4. Ó maður, einmitt þú
Að því huganum snú,
Sem fólsku marga fremur,
Fyrir dómarann kemur,
Og hlýtur hegníng stranga,
Frá hans augliti' að ganga.
5. Ó, maður, einmitt þú
— Óhultur haf þú trú, —
Hèr sem að Guði hlýddir,
Helgum dyggðum þig prýddir,
Fyrir Krist færð að sanna
Fullsælu himna ranna.
6. Lausnari', er lifðir, dóst,
Líf oss og sælu bjóst,
Upprisni, himinhafni,
Himneskri dýrð um vafni,

Ó þú ert ástar tama
Eilífa veran sama.
7. Og einmitt þeir hjá þèr
Þar sjást, er skildu hèr:
Ektahjón, ástmenn, vinir,
Ættíngjar, dætur, synir;
Sú himnesk huggun mæta
Skal harmameinin bæta.
8. Eg trúi, ó drottinn,
Að rísi' upp líkaminn,
Að blessan mèr þú býtir,
Og bönd öll dauðans slítir;
Að sælum sigri' eg hrósi
Í sönnu dýrðar ljósi.

---

## 106. sálmur.

Lag: Rís upp, mín sál, að nýju nu.

Upprís gjörvallur andi minn
Upprisu' hugsa' um lærdóminn,
Lífs betrun af því lærðu;
Líf meðan er
Lènt á jörð þèr,
Lífið í nyt þèr færðu.
2. Frá ánauð synda upprís þú.
Iðrun ræktu, og sanna trú,

Lif þú í Guði glaður:
Þeim svo upprís,
Er sælan vís,
Sá er nýr orðinn maður.
3. Yfir honum á ekkert vald
Andans dauði nè synda gjald,
Líkams þó lífið þrotni,
Því lifir önd,
Lífs varin hönd,
Í lífinu hjá drottni.
4. En þú, sem elskar syndasið,
Syndanna gjöldum búst þú við,
Þú átt von þúngra nauða,
Ó apturför
Og eymda kjör,
Og lífið sælusnauða.
5. Upprísum dauða andans frá
Andlegir limir gjörumst á
Eilífum anda herra;
Audans framför
Og yndiskjör
Aldrei munu þá þverra.
6. Þú sem upprisan ert og líf,
Allra trúaðra sól og hlíf,
Lífgjafi lífsins sanna,
Lífsgeislann þinn
Látt drottinn minn,

Lífga dauð hugskot manna.
7. Ó að kærleikans eilíf sól,
Almáttug, sem að lífið ól,
Frii það fjötrum nauða,
Og láti sinn
Ástar kraptinn
Afmá gjörvallan dauða.
8. Og hvað fær staðizt fyrir þèr,
Faðir, hvers máttur aldrei þver,
Nè ást nè eilíf vizka.
Eg vona' og bið:
Vondu burt ryð,
Vil samt á ekkert gizka.
9. En þú duptklæddi andi minn
Upphef hèr dýrðar lofsöng þinn
Honum, sem gott allt gjörir;
Eilífðin löng
Þann sigursöng
Síglæði nýju fjöri.

---

## 107. sálmur.

### Á síðasta sumardag.

Lag: Syrgjum ekki sáluga bræður.

Sumartíðin senn er útliðin,
Sem oss flutti heill, gnægð og friðinn,

þökk og lofgjörð því ber oss færa
þèr, ó faðir, gæzkan einskæra.
2. Þarfir lífsins þín náð oss sendi,
Þú oss leiddir miskunar hendi
Gegnum lífsins hverfula haginn
Hvern hins liðna sumarsins daginn.
3. Þó að syndin sálunni spillti,
Svikul gleðin hugskotið villti,
Yfir oss samt ástin þín streymdi,
Engu sínu barninu gleymdi.
4. Orðið þitt var oss leiðarstjarna
Yfir skeiðið lífs villu gjarna;
Við oss breyta vannst þú sem faðir,
Vèr í auðmýkt játum það glaðir.
5. Þökkin hjartans þèr skal því hljóma,
Þína náð og miskunsemd róma;
Sjá, vèr nú til fóta þèr föllum,
Faðir, og þig bljúgir á köllum:
6. Gef að tímans breytíng oss bendi,
Burtför sè vor og fyrir hendi:
Blómi landsins byrgist í foldu,
Blómi mannsins felst og í moldu.
7. Blóma andans í oss lát þróast,
Æðra lífsins sáð taka' að frjóvast,
Þegar fjúk og frost jörðu hylur,
Fjörgi þau þinn kærleikans ylur.

8. Þó að húmi, lát samt ei linna
Ljómann fagra orðanna þinna,
Myrkri eyði, blessun oss boði,
Betra lífsins skær morgunroði.
9. Geym oss, faðir, ókomna' um æfi,
Oss veit þarfir lífsins í hæfi;
Vert þú, Jesús, vor allrabeztur,
Vin, og ástkær heimilis gestur.
10. Unn oss þinnar eilífu mildi
Undir þinnar miskunar skildi,
Flokki' er þinna frelsuðu sauða'
Fullborgið í lífinu' og dauða.

---

## 108. sálmur.

### Á fyrsta vetrardag.

Lag: Syrgjum vèr ei sáluga bræður.

Sumartíðar felst undir faldi,
Farin blíða', en veturinn kaldi
Kominn, og oss bistur enn bendir,
Böl og hríðin sè fyrir hendi.
2. Blóm er horfið, burt jarðar gróður,
Brjóst er sorfið jurtanna móður,
Líkt sem sè hún líkblæju falin,
Liggur hún nú fölnuð og kalin.

3. Skepnan kvíðir skiptunum tíða,
Skekja hríðir jörðina víða,
Kenna lýðir kuldans óblíða,
Kvaka' ei fríðir söngfuglar hlíða.
4. Hver er nú, sem huggar og gleður?
Hver er nú, sem annast og seður?
Hver er nú, sem hjúkrað oss getur,
Hjálpað enn, og blessað í vetur?
5. Ó það ert þú, allra vor faðir,
Alheims stýrir, þess vegna glaðir
Þèr vèr felum önd, líf og efni,
Í von, trú og sannr' undirgefni.
6. Eptir þinnar alvizku ráði
Ástarrík þín mildin oss náði;
Hvort þú sendir hryggð eða kæti,
Hjarta vors það sè eptirlæti.
7. Æ vèr brjótum, oss í náð vægðu;
Oss til bóta lífskjörum hægðu;
Lasta skjótu brotum frá bægðu;
Blossann fljóta girndanna lægðu.
8. Oss lát klæðast iðrunur serki;
Í oss glæðast helgunar merki;
Framkvæmd bæði' í vilja' og í verki
Verka' ó hæða faðirinn sterki.
9. Alheims faðir, allt sem að getur,
Oss blessaðu þennan um vetur;

Veit að búum önd vora undir
Æðra lífsins sælunnar stundir.
10. Ó vor faðir, oss hjálpa betur
En vor sálin beðið þig getur,
Fyrir Jesú dýrasta dreyra,
Drottinn, virzt þú bæn vora heyra.

---

## 109. sálmur.

### Á aðfangadagskvöld jóla.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.

Mannkynið dvaldi' í dymmum skugga
Dauðinn og vantrú ríktu þar,
Þá kom hann til að hressa' og hugga
Sem himni lauk upp Guðs náðar;
Jesús fæddist, heims sanna sól,
Sjá, hvílík hátíð eru jól.
2. Vanþekkíng huldi veginn sanna,
Og villumyrkrin harla svört,
Þá rann upp kyni mæddu manna
„Morgunstjarnan" svo skær og björt,
Jesús, guðfögur sannleiks sól,
Sjá, hvílík hátíð eru jól.

3. Ánauðin synda ákaft þjáði,
Í heimi fèkkst ei bótin nein,
Þá kom, að Guðs vors gæzku ráði,
Guðsson, og sálna bætti mein,
Jesús, rèttlætis sanna sól,
Sjá, hvílík hátíð eru jól.

4. Skelfíngin grafar gleði eyddi,
Geigvænlegt var þig, dauði', að sjá,
Þá kom hann, sem að ljós í leiddi
Lífið eilífa Guði hjá,
Jesús vor, lífsins sanna sól,
Sjá hvílík hátíð eru jól.

5. Nú er því grafar óttinn eyddur,
Upplokinn náðar himin Guðs,
Sannleikinn einnig ljós í leiddur,
Og lífið sanna alfögnuðs,
Oss ljómar ástar sískær sól;
Sönn gleðihátíð eru jól.

6. Gagntaki hjörtun gleðin sanna,
Guðssonar lofgjörð hljómi skær,
Keppst' á, þú frelsta kynið manna,
Kunngjör þú dýrð hans nær og fjær.
Í hjörtum ljómi lífsins sól,
Lausnarans fæðíng boða jól.

---

# 110. sálmur.

## Á gamla árs kvöld.

Lag: Hver sem að reisir hæga byggð.

Í nafni Jesú endum vèr
Árið, sem nú oss kveður;
Algóði faðir, þökk sè þèr,
Þinn var oss styrkur lèður,
Að bæta þinna barna þörf
Að blessa vor öll skyldustörf;
Þú annast allt og gleður.
2. Einskæran þinnar ástar vott
Í ótal sáum myndum
Á öllun því sem þáðum gott
Af þinnar náðar lindum;
Vanþökk og gleymska villtu lund,
Ef vèr ei hinnstu ársins stund
Fagnandi til þess fyndum.
3. Þíns anda gæði gafst þú oss,
Og Guðdóms orðið mæta,
Að þegar þrengði þraut og kross
Það veitti huggun sæta;
Það nam oss vísa beina braut
Á blíðast náðar þinnar skaut,
Ef vort ráð vildum bæta.

4. Frá oss afstýrðir, faðir kær,
Fjölda af ýmsum meinum,
Mörg þeirra, sem ei þekktum vær,
Þèr eru kunnust einum;
Einnig mörg synda' og angurs bönd.
Afleysa vann þín náðarhönd;
Oss studdi' í öllum greinum.

5. Þá dauðinn harðan harm oss jók
Að hæstum þínum vilja,
Og ástvinina á burt tók,
Ó þá var sárt að skilja,
Einn þú af þerrðir angurs tár,
Einn þú vor harma mýktir sár,
Oss ber þess ekki' að dylja.

6. Í Jesú nafni árið nýtt
Oss blessa, faðir kæri,
Veit þú að það oss verði blítt
Og velsæld marga færi;
Gef að vèr iðkum á því mest
Það eflir vora farsæld bezt.
Þitt orð köld hjörtun hræri!

## Upphafsstef sálmanna
í stafrofsröð.

---

## Leiðrèttíngar.

Bls. 3.[22] gleði' les: gleðji'. Bls. 17.[14] starfa'. l.: starfa. Bls. 18.[18] verkuð l.: verkað. Bls. 26.[22] Ond l.: Önd. Bls. 26.[23] Ormæddum l.: Örmæddum. Bls. 28.[7] vittu l.: viltu. Bls. 29.[4] syudum l.: syndum. Bls. 29.[13] blíðar l.: blíður. Bls. 29.[22] í l.: á. Bls. 30.[17] 5. l.: 4. Bls. 30.[23] þar l.: par. Bls. 31.[18] beldur l.: heldur. Bls. 32.[24] bitt l.: þitt. Bls. 34.[14] Einstt l.: Einatt. Bls. 48.[2] vort l.: vor. Bls. 49.[3] Veit l.: Veitt. Bls. 79.[1] verðar l.: verður. Bls. 86.[8] þar l.: þor. Bls. 87.[5] sèr l.: vèr. Bls. 93.[4] hjartað l.: hjástoð. Bls. 95.[21] Verði l.: Æ verði. Bls. 95. á eptir 21. línu vantar: Viljinn í auðmýkt lúti minn, Bls 99.[23] faðirinu l.: faðirinn. Bls. 100.[14] Lofgjorð l.: Lofgjörð. Bls. 106.[13] Öruggur l.: Öruggir. Bls. 114.[8] dýrsfl l.: dýrsti. Bls. 125.[14] Glaðværandi l.: Glaðvær andi. Bls. 126.[23] Umburðarlyndi' l.: Umburðarlyndi' og. Bls. 130.[25] En l.: Er. Bls. 135.[15] vor l.: vort. Bls. 135.[16] Ond l.: Önd. Bls. 152.[22] hvar til l: því svo. Bls. 154.[5] færa l.: greiða. Bls. 159.[16] himna l.: hinna Bls. 160.[15] fullsæl l.: fullsæll. Bls. 169.[9] sem l.: sem oss. Bls. 172.[12] Hann l.: Hans. Bls. 178.[12] Árgeislanum l.: Árgeislunum. Bls. 178.[18] Friðsól l.: Friðsæl. Bls. 180.[19] þú l.: þá. Bls. 185.[15] vèr ei l.: ekki. Bls. 185.[16] Sumartíðar l.: Sumar tíðar. Bls. 186.[22] iðrunur l.: iðrunar. Bls. 189.[13] öllun l.: öllu.

Samkvæmt því, sem ráð er fyrir gjört neðst á IV. bls. í formálanum eiga fylgjandi Nr. að standa í ( ): Nr. 15. 16. 32. 37. 40. 41. 52. 55. 57. 65. 70. 71. 72. 73. 74. 92.

Aðgreiningarmerkin eru sumstaðar ekki á rèttum stað, en þar slíkt varla getur valdið miklum misskilningi, umbiðst góðfús lesari að færa það á betri veg.

---

Í prentsmiðju Íslands 1860. E. Þórðarson.

